# Einfallder Þankar

um

# Akur-Yrkiu

edur

hvørn veg hun kynne ad nyiu

ad infœrast

a Islande

samanskrifad fyrir bændur og alþydu.

---

Prentad i Kaupmannahofn af August
Friderich Stein, 1771.



# Formaale til Lesarans!

Einginn kann þvi neyta ad biargrædis og næringar-standid her i voru fodurlande þreyngir miøg til endurbotar, og ekki ad þar mætte rada bot a; og munde þa eigi skylldan vid fodurlandid, sialfa oss og adra vora landsmenn krefia af oss ad serhver ynni sinn hluta þar til. Efninn vanta oss ekki: Skaparinn hefur so rikugliga audgad natturuna med þvilikre gnægd alls-hattadra gæda, sem adrar þioder mundu ser æskia, enn ver metum ad litlu.



Þar

Þar veri langt frá eg bregde landsmonnum minum um vanþakklæte; þad var þeim ekki rett giort: enn ad þekkingar-edur kunnattuskortur nockur se orsök her i, mun valla neytad verda. Nu er þá ekki vert ad fiölyrda um þetta efne, þvi eg veit ad yfirralldanna manndomsfullu adgiörder fylgia mune konungsins nadugumvilia, ad bæta þad aflaga hefur gengid hingad til, þar so syniſt sem hin ellefta ſtundinn bode oss einn nyiann tima.

Ad eg nær gange efni þvi eg villde um tala, kann vera nokkrum syniſt forgefins þad erfide eg hefe varid til ad saman-taka þenna litla Bækling, er her kemur fyrir almennings sioner, og höndlar um akuryrkiu ad innfæra á Island: þeir kanſke segi, menn megi giora allt hvad þeir megne. Island verde þo alldri Þydſkaland edur Italien (Valland) þar hafi verid bændur fra Danmork og Norvegi, sem sad hafe, enn allt se þo hid sama: her til svara eg þessu. Island er ekki þad einaſta sem þvilikt má heyra: so hafa alltid þær upplyſtare þioderuar talad um þær sem midur voru, og hverigar hafa þeinkt annad enn satt være, allt þar til menn lögdu höndena á verkid, ad endurbæta tilſtand lands og lyda.

So hafa Romveriar talad um þad frioſsama Þydſkaland, Grikker aftur um Romveria, og enn adrer um Grikke ádur þeir toku ad blomgaſt. Audvellt er ad færa bevisingar her til; enn eg læt mer alleina nægia vitne Taciti Sagnameiſtara um Þydveria, sem siálfur

var

var i lide Romveria, þa þeir ræku hernad i Þyskalande og Nidur-londunum. Hann segir jordinn sé þar litt nyt, bere varla korn, og alls ekki aldin-tre, og kvik-fenadur þeirra se smaar, magur og audvirdiligur (les hans Þidveriu 2 Cap.) hver kynne segia slikt um Þyskaland a vorum tidum?

J Romaborg þokte þad nyungar þa Lucius Hershofdinge þeirra færde þangad kirsiber-tre, þa hann kom heim ur hernade ur Austurvege, og nu vaxa þaug i Norvege og og odrum nordlægum londum.

Enginn taka ord min so rikt, sem eg setie Jsland samsidis vid Þydskaland edur Jtalien (Valland) þar vere langt fra! enn þvi vona eg einginn neyti, ad so vel sem hinn nordre hlute af Noreg og onnur Nordurlond, sem liggia undir sama himinstriki og Jsland, kunna bera korn, kynne þad og eirnig, og kanske ad þvi leiti betur sem þad hefur betri jardgæde ef kunnattu og adburde eigi vantade.

Ad þeim utlendu bændum heppnadist ekki korn-yrkiann a Jslande, þarf eigi veikia tru vora ef rett adgætum; þeirra ranga adferd og fauvysligu adburder eru alkennd. Þeir kunnu eigi handverkid, sem eigi var ad vænta, þeir villdu bruka somu adferd i voru kallda Jslande, sem þeir hofdu lært af fodur og fodur-fodur i Jotlande og Noregi austan fialls vid sioarsidu, sem liggia undir mikid varmara lofte, og eru bæde gomul kornlond. Þeir kunnu ekki ad utvelia þa rettu jord, hvar til dæme er a einum stad i Hunavatns-syslu, sem l. sed-

 hefe,

hefe, ad eitt leirhollt af orækta:leir, sem ekki hafde borid gras i manna:minne var arid til rugsædis; somuleidis eitt myrlendt stykke af tuninu. Þeir þecktu ekki jardarennar verkaner, ekki hennar margvyslegu arter, og kunnu eigi ad greina þærskadlegu fra þeim godu i ny:upptekun lande. Þeir hafa eigi kunnad leggia akurinn rett, sem audsært er þar af, ad marg:er þeirra akrar liggia i mot, nordre og land:nordre, þeim kolldustu attum a Islande, edur standa a bersvæde, sem allvida sia ma. Þeir kendu eigi þa verkun edur verkunar nattúru, sem þetta edur annad jardar:kyn hefur til þessa edur hins kornsædis, og alldri heyrdist þeir sæktu eftir kornsæde fra þeim kolldu londum, sem þo best og samkvæmast mundi:vorre jord, lofte og vedurattu. Þeir kunna ekki helldur vita rett tidena a hvorre sa og plæ:gia skyllde, sem ovaner þvi islendska lofte og vedurfare, med morgu odru sem oflaugt er upp ad telia, og Baron Haſtfer siallfur medkenner i hans skrife, er hann kallar upartiske Tanker om Island, og her ad auke leide eg grun um, hve dugande utsædid verid hafe; hvor kann þar um ad vitna? Edur hvad þarf her lengra ad leita enn til vorrar klædsmidiu (Fabriqven) þar sydra. Þad er alkent hvorsu illa þad gek þeim framande ervidis:monnum, er þeir skylldu vinna þa islendsku ull, þar til þeir hofdu nær lært a ny. Hvad munde þa vallda ad ekki vex korn i Islande? Ver hofum þa bestu jord, landslag allvida miog hagligt til akur:lands, ver hofum loft og vedurattu eigi kalldare enn i odrum londum,

hvar

hvar kornvex, einkum sudurlandid, og land nog þar til, mer virdist adburdaleyse.

a Mære i Norege vex bæde nærre alls slags korn og Kirseber, og ounur fleire veikustu eple og aldine, sem miög lytinn fullda þola, þaug herud liggia þo undir hælfum þridia grad hins siounda tigar polihædar, og nær undir sama himinstrike liggur vort sudurland, og hvad meira er: aird 1761 hefur einum skinsömum manne i Eyia-firde tekist gæfusamliga ad sá fullvaxid bygg, sem hann siaulfur hafde tilsaad med eginn hende, og þad er þo eitt af þeim nordustu stodum a landinu, og eg get eigi leidt mer i hug, ad þetta dæme yrde einstakt ef fleire reyndu.

Sa mate er eg her bruka (nefnelega ad byria a upphafe hlutanna, og syna þeirra grundvallar orsaker) med kenne eg ad þyngre er ad gripa og oaudvelldare, enn þo eg hefde utmaalad hlutina, sem þeir fyrir sioner komu, og slept þeirra grundvelle; enn hvor sem lætur ser undirvisa a þennann hatt, vinnur þar vid tvofallt. Hid fyrsta er, hann lærir ad dæma og alykta um hlutina af þeirra uppruna, rökum og fyrirkomande kringumstædum, og i annann mata friast hann fra þvi farliga vanaus einvalldsdæme, sem ekkert vill annad vita, enn allt skule standa vid þad gamla hvorsu skadligt sem er: og hvor sem reit þekkir hyggiuvit og natturu skinseme landsmanna minna, og þa mikiu eftirlongun þeir hafa ad lesa eitthvad

hvad nytsamlegt kann vera, mun ekki kunna mig um þessa sok.

Ad sidustu vil eg þess geta, er þar nokkur sem ekki er ánægdur med minn einfallda styl og margfolldu itrekaner bæde orda og efnis, læt eg þa vita ad þad er med vilia giort, so hefur mer virdst ad best yrde hialpad bæde minne og skilninge þeirra einfoldu fyrir hvoria bæklingurinn er skrifadur; einkum þa talad er um okenda hlute sem eigi eru audskilder.

Kærer landsmenn! eg medkenne ad Bæklingur þesse er vanmegna og ofullkominn ad utretta svo mikla hlute sem til er ætlad; þo oska eg hann verda mætti til godra nota, enn avallt verdur time fyrir þeim ad giora betur sem betur kunna.

I. Cap.



# I. Cap.

## Um jardarinnar arter og uppruna, og náttúrunnar verkaner þar inne, einkum i ad framleida grøs og avexte.

Þær merkiligustu jard-arter sem hæfastar eru ad frambera gras og avexte eru þreñ slags: 1. Molld. 2. leir. 3. sandur. Þessar þriar mega med rettu kallast hofud-arter; þvi hvar þær ekki eru allar, edur í



hid

hid minnsta tvær af þeim blandadar, er eigi ad vænta friossamrar jardar. Her af útspringa þau margar adrar sinaigreiner, sem eru minna gilldis, enn heira þo þessum med rettu til, og ekki kunna undanfellast vegna sinnar miklu nytsemdar til avaxtanna friosgunar sem sidar skal sagt verda.

Serhvor sem æsker ad hafa þau rettu og gagnsamlegu þecking um jardarinnar arter og kynferde, med þeirra rettu nautturu gædum, mau valla ann vera uppruna þeckingar jardarennar og hennar samteingingar, samt hvornin avexterner mindast þar i, med ødrum fleire nautturunnar verkunum.

Sau fyrste grundvollur er i þeim fiorum hofudskepnum, sem eru Elldur, Loft, Vatn og Jørd, þær kenna aller: þessar hafa þeir gomlu kallad Element. Ordid þyder uppruna, og merker so mikid ad þær seu sem grundvollur til allrar nautturunnar. Hermed hafa þeir sidare Chemici

mic!. (Natturu-deilendur) ekki verid ánægder; þeir hafa auk þessara fiogra fundid enn fleire Element (edur Grundvallarhlute natturunnar) medal hvorra eg nefne þesse tvo, som er einslags feitur vokve, likur olin, og nockurskonar sallt enn hefur þo ekki alla somu liking og smeck sem vort matreidu-sallt, jafnvel þott þad hafe marga af þess eigin ligleikum.

Her mætte þar færa nockur rok til, og syna hvorneg adurnefnd Element kynnu ad framleidast af hlutunum, til merkis þau væru þar i. Þeir sem sed hafa brennt brennevin af ruge edur korne, edur distillerad af urtum, vita ad þar kemur fyrst einn þunnur og lettur vokve, sem kalladur er spiritus (andinn i urtarikinu) þegar hann nu helldur upp ad driupa og aukinn verdur elldurinn, kemur enn fram ein þunn og lett fita, sem kollud er olia; þa hun hefur dropid um hrid, fær madur adra þickvare, lika tioru, þegar hun er so utdropin, ad ekki fæst meira, verdur þar efter at

botninum ein svort jardbleita, sem er þikki lik lediu. Vill madur distillera ai nu þai þikku oliu verdur hun ysrid tær og þunn, enn lætur eftir sig eina svarta lediu, eins sem þai fyrstu so hofum ver þai feingid hid fyrsta Element, sem ver um toludum. Nu er tekin bleitan sem eftir vard af þvi fyrsta renslé (edur distillation) og latin i deiglu, sem setiest yfir hægann elld, og brennist þar; missér hun þai sinn svarta lit, og verdur hvit sem aska, og sinai sem dupt. Þegar þad er burt tekid af elldinum, og latid kolna, skal þar hellast ai þvi hreinasta vatne og stande so eitt dægur, sidan skal hella vatnenu af ai einn leirdisk edur fat, sem setiest i solar-hita edur ai littvarmann kakalofn, þar til vatnid er afrokid, so er þar ai botninum einslags sallt; enn su hvita aska ef hun er þurkud, verdur ad sion og aþreifing sem smærsta og miukasta dupt.

Nu eru fengner þeir þrir hluter er eg strax um talade: þeir eru alltid i einne godre og friossamre jord, þeir eru og i allslags urtum

og

og groſum, og eigi kynnu þeir að takaſt þar af, ef þeir væru eigi þar i; þvi engi tekur það ekki er til. Øll ſu jord ſem ekki heſur þetta þrent i ſer, ſallt, oliu og vatn, hun er ofriofſøm, og það ſinnſt i øllum urtum.

Jorðenn er það æðſta og ypparſta af Elementunum, ai og i henne æſa þau onnur ſina verkan, og eru ſo nakvæmt með henne ſamteingð, að þau kunna torvelldt eður ekki ſullkomliga að ſkiliaſt þar frá. Þetta aður-talða jarð-dupt ſinnum ver alldri ſo hreint i natturunne, það er avallt með annare materiu ſamannblandað; þvi er auðſært, að jord ſu er ver dagliga ſiaum ſyrir vorum augum, forþenar ekki það naſn: enn af þvi hun heſur i ſer það eſne, hvar af likamer graſanna, triánna, urta og aldina jai og i nockurn mata dyranna minðaſt og vaxa, og þeir ſamanſtanda af þeſſu letta og ſmaia dupte, og jorðin ſialf er af þvi ſamſett, og þeſſvegna ber hun það naſn, og kallaſt Element.

Það annað uppruna efne, hvar af gros og urter uppkoma er olia, edur þunn og lett fita: er af sinne nautturu otruliga elldfim, og tekur ongre blandan með vatne.

Hið þriðia efne sem er i grosum og urtum og eg strax um gat er salltið.

Solltinn eru margslags, og hafa imisligar verkanir i Natturunnar-rike, enn koma ekki þessu efne við, utan þau tvo alleina sem mest giora til avaxtanna þrosska og framvaxtar, sem er það sura sallt, og Alcal-salltið.

Það er salltsins nauttura að það rennur i vatne, og sundurleyser þau hlute sem eru þvi i vatnenu nærverande; þess upprune er af einslags sur edur surre tegund, vatne og jord. Vatn kenna aller an frekare utskiringar: Þa jord sem er i salltinu hefe eg audur umtalað, það er element, jordin, surinn er þa það sem hellst er athuga verdur: hann kann madur inminda ser sem noskurskonar ofirnautturlega lettann og þunnann vokva, sem er utbreiddur um alla natturuna, hann er i loftinu og jordunne, þvi er hann

hann af Natturu-spekingum, kalladur acidum universale, (hvilikur einn sur sem finnst i ollum hlutum) dagliga megum ver finna og formerkia hans verkaner i þeim hlutum, ver umgougunst: þar miolk, misa, ol, vin og annar logur hefur stadid lengi, einkum er þad i sumarhita surna þau og beiskiast; hvad er þad annad, enn þau hafa þar allt dregid til sin af loftinu, ædur umtaldann sur, og er hann þeim nu allt sameinadur med sinum verkunum.

Vid surinn er einkum, ad merkia þann sterka tildrættar-kraft hann hefur til allra annara hluta, einkum til vatns og jardar, og allrar elldsimrar materiu, og einkum til vatnsins.

Enginn kalle ofgar, edur læte ser undursverdt synast, ad eg tala her um Surins tildrættar-kraft (vim attractionis). Þad er i ollum hlutum i Natturunnar rike einslags at syse, og einn virkiligur kraftur ad sameinast hvort ødru, hiaa sumum minni, sumum meiri, sem merkiaa er. af morgum hlutum, þott hann se

hvørge so merkiligur edur oſkgur sem i millum, stals og segulsteins.

I, hiai og vid þenna tildrattar-kraft eru marger merkeliger adburder ad gaumgæfa, sem giora, stora nytsemd og upplysing i vorre dagligre handtering, og mun þvi eigi onytt, ad framtelia nockrar af hans (tildrattar-kraftarins) verkunum.

Su fyrsta er, þegar tveimur hlutum i naatturunne verdur samanblandad, sem hafa lika verkun, kraft og naatturu, laata þær sig audvelldliga sameina, til dæmis: Miolk og Vatn, kome nu su þridia til, sem hefur lika naatturu med annarre hvorre af þessum tveimur, annadhvort miolkenne edur vatninu, so sem Edik, Vin edur Syra, sem eru langt, naanare vatnenu, skal madur siaa, ad þad samblandast hvort ødru, og miolkinn skilur sig ad, og hvad meira er, eftir nockurn tima skilur miolkin sig siaalf, og saa partur hennar sem ilkare er hinum tveimur samblandast þeim, og ysturinn, verdur fyrir sig alleina. 2) Er

2) Er ad merkia þegar tveir edur fleire hlutir i natturunne sameinast, misser hvor um sig nockud af þeirre natturu, krafte og verkan, er þeir hofdu alleina, enn hafa nu og behallda eftir samein inguna nockud af hvoru tveggia natturu, sem þo er eigi so fullkominn, sem hvor fyrir sig hafde fyrir sameininguna, þvi sú eina deyfer þa adra; til dæmis: vatn og vin sammanhellt.

3) Er vel adgætande, þvi likari tegundernar eru ad efne, kraft og verkun, þvi audvelldara blandast þær, og þvi olikare, þvi sidur: til dæmis Eyr og latun, Eyr og silfur, Vatn og Vin. Enn Vatn og olia edur fita, tin og jarn blandast eigi so audvelldt, þvi þau eru olikrar artar.

Margt er þad fleira merkilegt, sem her mætte tilfæra, og minn aseinlingur leifer eigi. Þo vil eg segia þetta eitt, ad þegar tvær edur fleire tegunder draga sig saman i natturunne, kann þar oft ad uppkoma af þeim einn hlutur, sem er miog olikur þeim sialfsum edur þvi fyrsta efne; so þad verdur þa ekki undarligt, þegar sa almenne sur (edur sure vokve) sem eg

strax um sgat, er sameinadur nokra þvi smærsta dupte af Element-jordinne, ad þar af urindast þar ein hord materia (hlutur) sem heiter Sursallt. Þetta sallt hefur þar natturu, ad þad samanbindur edur saman-dregur þa hlute, sem þad kemur nærre, og er skadligt fyrir urter og friossama jord.

Þad Alcalisska sallt er tekid af einne urt sem vex vid Mid-jardar-hafid, og kol-lud er Kali, so þyding ordsins er þar ekki onnur, enn sallt af þeirre urt Kali. Allt þad sallt sem hefur sama kraft og natturu, er kallad Alcal-sallt; þad er i ollum urtum, triam og avoxtum. Þess nattura er þvert i mot sursins, þvi so sterkliga sem hann sam-anbindur, kiprar og dregur tegunder hlu-tanna so, kroftugliga uppleyser þad og ad-skilur allahlute, og setur þar i hværing. Auk þessara adurtalldra salltna, gefast þar morg fleire i natturunnar rike: eg nefne her þriu, sem Natturu-spekingar so kalla, Brenniskein, Saltpietur og Victril (edur Vitriolum) bæde þesse þriu so kolludu sollt, og

mate-

materian (edur efnid) hvar af þau aflast, lata sig tidum sia i saudjordenne; þvi forþena þaug athygle nockra.

Þegar sa almenne sur (er eg hefe adur umtalad) samblandast grasmolldenne, mindast þar af salltpietur. Þegar hann (surinn) kemur til rauda-edur Málm-jardar, mindast þar Victril. Þad kalla malmvise-speckingar Malmsallt. Drage nu surinn til sin nockurskonar elldsima bergsitu, kemur þar upp Brennesteirn. Salltpietur finnst oft i friossamre jord, hann rennur audvelldliga i vatne, giorer jordina opna og lausa, og hentuga til ad gefa urtunum fædu enn se ofmikid þar af, kann verda skadligt. Þau rettu kennemerke, hvar af madur skal þeckia salltpieturjordina, eru þesse: ef hun er uppgrafin og latin liggia nockra tid i solskine, verdur hun hvit og þa ma hun blandast med annare jord, ef hun skal bera avoxt. Allstadar hvar kopar edur jarn-raude er i jordenne, og þar til kemur nockud af þeim adur umtallada sur, uppkemur victril, sem vida er i jordenne, og so margvis-

lig:

ligt sem maalmtegunder erú: til dæmis; jaarn-victril, kopar-victril og so framveigis. Hvar so mikid vatn er nærverande, ad þetta kann eigi storkna, setur þad einn þvilikann lit aa jordina, sem likist þeim maalme, sem victrilid er af, so þar af þeckist audvelldt, hvort þad er nærverande: take madur litid af jordenne og bregde i munn ser, so er hennar smeckur likastur blekfmeck og hefur imsa lite, brunann, gulann og raudann. Su jord sem so er lit, hefur i ser jarn-victril, enn su græna edur blaa kopar-victril. Item þegar ein svort jord hefur einn blaaann glans edur blæ, er su aadur-greinda orsok þar til.

Heraf kemur og su blaaleita himna sem tidum sest aa smaa-tiornum og myr-pollum. Menn siaa og tidt, siaalfar rauda-pipurnar ofan aa jordenne, enn einkum i groftum edur aar-bockum.

Victril er miog skadlegt fyrir allslags saadjord, þad samandregur edur skerper ur-

ter

ter og avexte, so sai natturlege friosgunar-voxve ekki kann ad hafa i þeim sin tilskickada gang, so þær visna upp og skrælast. Aller maulmar eru-kalldrar natturu, og samanbinda alikt og surinn. Þvi eru myrar oft ofriosar, ad victril helldur sig þar i, utan hvar þar er so mikil gnægd af vatne, sem kann avallt lata þad fliota, so þad nae eigi ad stadfestast i avoxtunum, og vex þar þa avallt stort gras, kiarn og krafta litid.

Madur finnur brennesteins-jord bæde i myrum og a þurr-lende, hvar mor edur graf-artorf er af jordenne uppskorid til elldividar, edur jorden er uppskorin, þurkud og brend, lætur sig i liose einn blaar loge, item i oſku hennar og eymiriu. Liktin leiner ser eigi helldur. Hvilik jord er eigi slæm til akurgiordar, ef imata er temprud.

Her er þa ad merkia um vatnid ad þad hefur mikla verkun i jordinne, og þeirre friossomu materiu þar i; þvi salltid og fitann

kynne

kynne eigi koma urtunum til hialpar med peirra verkande krafte, ef vatned ekki hialpade par til. Element jordin, sem eg hefe adur nefnt, preinger og til pess allstadar, pvi hun er i sinne nattturu laus og opett, og kynne eigi af sinum egin kroftum framleida gros og avexte.

Vatnid er i ser, og af sinni nattturu miog lett og punnt og miog kviklatt, pad merkist af morgu, po einkum vid litinn varma tekur pad strax ad gusa edur riuka upp i loftid, sem siaz er a tiornum, myrum og bleitu um sumartima, po sest pad best vid sudu, og er paz audkendara enn a flestum odrum leige.

Saz punne likame sem umgyrder heila veralldar-hnottinn, enn ver kunnum po eigi ad finna med skilningarvitunum, utan ef ver hastarlega veifum um oss hendinne edur punnre skifu, ad pad gioree motstand; pad kollum ver loft. Pad hefur stora verkan i jordinni og avoxtunum, bæde hialpar pad peim friossomu

pore

portum ad fliota um i jordenne og innþreingia ser og renna um i avoxtunum. Pad er loftsins nattura ad þenia edur blaasa sig ut; þar til hialpar mikid hiten. Þess kennelega verkun ser madur þar af, se tekin ein bladra, og blaasin upp til haalfs, logd so yfir glædur, þrutnar hun strax, og þenst ut, inn til hun ad stundu lidenne springur med hvell nokrum. Ver vissum þar var ekkert i blodrunne annad enn vindur, og hun ekki nema half, so hun kunne eigi springa þar af; hitinn edur elldurinn var þa orsok her til, sem er isrid lettur, þunnur og gegnum þreingiande, þreingde nu inn i gegnum blodruna, sameinadist loftinu, æste þad upp, sette i gang edur nockurskonar olgu, enn kunne siaalft (eg meina loftid) ekki koma þar ut i gegnum, og þvi maatte blaudran rifna. Af þessu litla ser madur, hvad varminn giorer i naatturunne; hann uppvekur loftsins utspennings krafta, og setur þad i sifellde id, gang og hræring, meira edur minna eftir þvi sem hann er sterkur edur hægur til: loftid þa aftur vatnid, vatnid aa ny þa friosomu materiu

teriu sem jordin i ser hefur, so ad þetta sriof gunar efni rennur um i jordenne, þar til þad kemur til avaxtanna rota, og verdur so af þeim inndruckid.

Af þessum, og þvilikum hitans og loftsins verkunum verda marger og merkeleger tilburder i vorre daglegre næring, buskap og biargræde, ef ver þar retteliga þekktum. Eg vil leida her til nockur einfalldleg dæme: madur tekur tolk, slot edur adra þvilika situ, blandar þar vid nockru af Alkal-salti, lætur þad i ker, og setur so yfir elld, strax tekur þad ad bola og froda, sem varir um hrid og helldur sidan upp, so er þad tekid af elldinum og latid storkna, og þar er þad ordid ad sapu, sem miog er olik þvi fyrsta efni sem for þar til.

Af skinni tilbuumvier lim soleidis, ad skera þad i smaa stikke, hella þar a nockru vatne, og setia so yfir elldinn. Vid suduna rennur þad sem annar logur, og er

nu ordid ad lime, olikt þvi fyrsta efne, sem þad var af giort, og þar kom þo ekkert annad til enn skinn og vatn. Vor egin fæda sem ver dagliga matreidum yfir elldinum, kemur hun ekki þar fra med odrum lit, lykt og smeck enn hun hafdi þa sett var yfir elldinn, og ver vitum þar er þo eigi annad i, enn þad sett var a elldinn. Af miolk kemur smior, ostur, og misa; og hvor skyllde trua ad so oliker hluter væru þar i einum, hefde eigi raunin synt þad so oft.

Eg hefe sagt ad hitinn være þad fyrsta, sem kæme loftenu af stad, edur sette þad i gaung og hræring: þegar þesse tvo element eru nu kominn i sina rettu ras og gang, koma þau til vatnsins, af hvoriu þar er hin mesta nægd utbreidd yfir alla natturuna. Vatnid er af sialfu ser og sinne eigin natturu miog lett og þunt, þegar þad er hreint og ekki blandad med þeirre þungu og þettu jord; er avallt bisande, og tekur linslega sameining med hinum tveimur (hita og lofte.) Þegar þetta

þrent er nu ſoleidis ſameinad, og hitinn vidvarer, idar þad og hræriſt og rennur um i jordenne, þar til þad finnur Alkal-ſalltid, ſem er i ollum triaum og urtum og allre frioſſamre jord.

Nu byriaſt þeſſe hværing a nyiann leik, ſem umbreitiſt i einſlags ſidu, er færer þa ſmaau og lettu parta i hlutunum fra einum ſtad i annann, þar til þeir koma a ſinn retta ſtad, og framleida ſo eftir nauturunnar edliliga hlaupe þau margviſligu daaſem darverk, ſem ver hvorn dag ſiaum med augunum i groſum triaum og avoxtum.

a þennann edur þviliſann hatt ſkapaſt gras korn, tre og allſlags avexter i jordenne, ſem ſidar ſkal greiniligar ſagt verda. Nu er þad omogulegt jordenne ad bera gras, korn edur urter, an hiaalpar af ſaadkorninu, (þad er ad ſegia an þeſſ þar ſe ſaad til.) Naturunnar hofundur hefur

aaliktad

auliktad þad skyllde þann veg ske, og þad hlitur ad ganga eftir edle natturunnar.

Innan i sædkorninu eru otal smaa rum og pipur, eigi olikt og ai svampe, midt þar i liggur einn ysrid letiur og þunnur vokve. Strax eftir ad kornid er komid i jordina, tekur þad til ad opna sig; sem orsakast af þeirre sterku liking, sem er imillum sædkornsins, og þeirrar friofsömu tegundar sem jordin hefur inne ad hallda.

Eftir þad fræid hefur opnad sig, tekur þesse adur umtalade vokve, sem þar er i, strax ad hreifa, sinum verkunum, og hialpar so smaumsaman sædkorninu til ad kasta rotum i jordu̇na, hvartil þau saman safnast su friofsama materia, sem jordenn i ser hefur og fædur fyrir hialp og ad stod þess til drauttar kraftar, er serhvor hlutur i natturunne hefur til annars, og adur er umtalad. Þetta allt mindar þau edur skapar, med hialp af kornsins egin

 natturu,

nattúru, aunægar rætur til síns egin avvaxtar, fullkomins vaxtar og þróunar; þesse hræring og tilreidsla, vidvarer sífelldt, og hætter ekki, allt þar til avöxturinn er fullvaxinn.

Pad fyrsta efne hvar af gras og urter mindast, er einslags fliotande og einslags fost materia, sem dregur sig saman, og setst hvad til annars, allt þar til þad hefur fullmindad urtina, so grasid vex ad akurkarlinum sofande.

Þeir þurru edur fostu partar, sem eru i og minda urtina, eru af element-jordenne, sem adur er umtalad, hvoria ein seig og limande olia, edur fita samanbindur.

Strax þa urtin, tekur ad skapast i jordenne, og svó lenge edur medan hun er i vexte, mindast þar i nockur smá rum, ker edur pipur, þar i tilreidist, þa hvad

eftir

eftir annad sai hraie friofgunar-vokve, sem aivoxturinn hefur i sig druckid ur jordenne af þvi friossamaefni hunhefur; þesse vokve umbreitist, þai hvad af hvoriu i þessum urtarinnar pipum, þar til hann fullkomliga er ordinn somu artar og naatturu, sem urtin siaulf er.

Þesse ker og pipur i urtunum eru margslags, og hafa hvor sina tilsetta verkan, so vislíga af skaparanum, nidurradada, ad þai þad eina hefur unnid sina þionustu, byriar þad annad, og þetta gengur so lenge gros og urter eru i vexte. Ver vitum ad utan um allar þær rætur sem i jordenne liggia, er ein þunn himna (edur hisme) sem full er af smai munnum edur holum, eigi olikar svita holum ar dyrum og monnum; þessar smai holur eru mestar i þeim smaau aungum, sem qvislast-ut frai rotenne i jordina, og meddeila hofudrotenne þann retta nærings-vokva: i deigre og varmre jordu, votu og vormu bedre opnast þessar holur; i kalldre og

deigre dragast þær saman: i gegnum þessa munna, insiuga ræturnar þann friosgunarrika næringar-vokva, sem umrennur i jordenne, hann safnast þa i þaug ytstu kerinn, sem under himnunne eru, þegar þaug eru full, edur hafa fengid so mikid sem næger, gengur þesse vokve lengra fram, og færist i þær pipur edur rennur, sem liggia fra rotunum til uctanna stanga, og fra þeim aftur til rotarinnar i þessum rennur hann framm og tilbaka fyrir hiälp og adstod lofts og varma. Her verdur hann nu fyrst ummindadur fra þeirre natturu hann hafde, þa hann inkom ur jordenne i kerinn, til einnar annarar natturu, sem er likare urtarrennar art og edle, sem skal þar af mindast og vaxa. Þa eru enn onnur ker sem taka vid af þessum og umbreita vokvanum, til urtarinnar egin efnis, þar til þad verdur henne sameinad og umbreitt i hennar egin likama, til hans auka og stærdar. Auk þessara eru þar enn onnur ker sem mottaka og utleida þann slæma

ſlæma og onyta vokva, ſem nu er ſkilinn frá þeim goda og gagnliga, er umbreittur vard til urtar, og ſkadad hefde, edur ad minſta koſte eckert gagn giort, hefde hann nád ad ſtanda i urtenne: eigi olika og af dyrum og manneſkium, ad þad af fædunne ſem ekki ſnyſt til holda og hams, edur vidurhallds likamans og þroſka, verdur fyrir edlilega ras utleidt.

Her hefe eg þá gefid ſtutta og einfallda þidingu, hvornen gras og urter vaxa og ſkapaſt i jordenne, eftir ſogu frodra manna, ſem med ſtoru kappe og erfidismunum hafa ranſakad natturuna. Eg hefe og viſad hvar af være þad rétta friofgunar efni ſem avextina mindar, nærrer og vidhelldur, ſamt getid litid natturunnar verkana i jordenne af hinum odrum elementunum. Hennar ſamſetnings, hennar ſkadlegu parta i akuryrkiunne og ſo framveigis.

## II. Cap.

# II. Cap.

## Hvørjar jard-arter bestar og hæfastar seu, til ad frambera korn og urter, og hvøriar midur edur skadligar.

Eg hefe adur sagt, ad þegar olia er distillerud (utdregin) af urtum og grøsum, verdur þar eftir a botninum svartleit jard-bleita. Þesse hin sama i elldinum brend, misser sinn svarta lit, og verdur oskuhvit; þad vatn sem hefur stadid a þessare osku um tima, og er hellt þar af a eirn leir-disk edur fat, og latid sidan burtriuka, skilur eftir a diskinum edur fatinu, þad sama sallt, sem þad hafde til sin dregid af oskunne edur element-jordenne.

Hier eru þau feingnir þessir þryr hlutir, sem eru það efne, hvaraf oll, gros og urter mindast og uppvaxa: sem eru jerd, olia edur fita, og sallt; ef ver þvi tilleggium vatnid sem ætid er med: þetta fernt er i allre frioſſamre jordu; enn mest er það og best hreinsad fra ollum þeim ſkadligu tegundum i þeirri rettu svartmolld, sem so er kollud og hun er su besta og frioſgunarrikasta af allslags jord, i henne vaxa og frioſgast allslags gros, urter og avexter, ef vedurattin ekki bæger, og þvi er hun og kollud alldingards-jord: somu meining hafa þeir gomlu haft um dygder þeſſarar jardar, semsiá er af Virgilius i Lands-yrkiu. (*)

Þesse svartmolld edur aldingards-jord kemur oss med imsu, mote fyrir sioner i jordenne: sum er laus i ser og hrinur sundur, þegar a henne er tekid, sum fost og

 þett,

(*) Nigra fere & presso pingvis sub vomere terra —
Optima frumentis. — Georg. 2. v. 203.

þett, seig og samanlodande. Þar til eru imsar orsaker; þo eru salt og fita hinar serligustu. Hvar jordin er seig og samanlodande, er mikil edur ofmikil fita nærverande, enn litid edur oflitid sallt.

Þad er sumra manna meining, ad svartmolldin uppkome af sumum grøsum og urtum, sem ærlega rotna nidur i jordina: þeir ganga enn nu lengra og segia ad likamer mannanna, dyranna og s. fr. þegar þeir suna i jordenne og verda ad molldu, hverfe til hennar vidurauka.

Min meining er, ad hun hafe ætid til verid: eg neita ekki ad þad gras edur sina, sem ekki verdur afskorin um haustid, og funar nu veturinn nidur i jordina, og gefur urtunum ad vore komande nytt lif og avoxt, giore mikid til hennar auka og vidurlags, þar sama er beggia efne. Þvi er hun oftast hid effta lag af jordenne, hvar nætturunnar ofrike og umbreiting, af

fiall=

fiall-skridum, vatna-ganga og odru þvilíku hefur þad ekki ur lage fært. Enn þa ver adgætum þad efne, hvar af þesse svarta molld er, se eg ekki min meining kunne virdast so olikleg, og enn framar ad hun hafe strax eftir skopunena, vered utbreidd yfir heila veralldar hnottinn; þvi þar stendur: **Jørdin frambar gras og urter.**

Svart-molldin er ædst og yppurst i sinne natturu af ollum jard-kynum, og þvi set eg hana her fyrst. Hvad frekara hennar kennemerke ahrærer, skal hun hellst kennast af fylgiande fra annarre jord: hun er miuk og þvol atektum lett og laus i ser, og þo eigi mikid sandblandin: hun kann ekki skerast i þunnar flogur edur skifur, sem mor edur grafartorf, enn merkist þo nockud samlodande, og lætur sig hnoda, ef hun er kreist i hondenne edur gnuin mille fingranna. I hitadogg, og vorin sumar-regne gefur hun fra ser einn þægann ilm; hid sama giorer hun ef hellt, er yfir

hana

hana heitu vatne. Ef hun er uppgrafin, kan hun eigi komast i þau somu grof, er hun var tekin af.

Skade er, ad su jord, sem hefur allt þetta til at bera, er heil sialld fengin: þo er hennar hellst ad vænta a þeim stodum, hvar mikid gras funar aarlega nidur i jordina, sem hvorke er bitid edur slegid, einkum er þar þurrlende. Af þessare svart-molld utspringa nockrar kvisler, sem likar eru moderenne, enn hafa þo eigi hennar gæde.

1. Er þar einslags svart-molld, sem af utvortis aalite er hinne miog lik, enn hefur þo eigi i alla stade þa dygd og agætu nautturu, sem hun hefur. Orsok þar til eru nockrer surer, kallder og ofriossamer vessar, sem til hennar eru komner, sem margvislega kann ske bæde af loftinu og odrum orsokum, i þvilikre jord vaxa eigi alldrei tre.

2. Hvar

2. Hvar sem svart-molld er í mýrum, fenum og dýium, er hun annarslags og af annare nátturu; þvi hvar su goda er laus og lett, þar er þesse seig og samanlimande, kann skerast i þunnar flögur, skifur og torfur. Hun er og þung, hvort sem hun er vot, edur þurr. Hin hefur agæta lykt, og ekki ohægann smeck: þesse hefur mikid i ser af sur og remmu; þo eru eigi allar myrar so mieg surar, hafa ekki helldur allar so vidurstiggiliga likt. Hvad hennar uppruna vidvikur, er hun af sama efne, sem su goda svart-molld: enn þær bitru og ofriossomu tegunder, sem þesse hefur inne ad hallda, og ekki eru i alldingards-jordunne, giora mismun a þeirra gædum, og þvi vil eg til adgreiningar a þeim kalla þessá myrar-jörd.

3. I grundum og þurrlende finnur madur oft svart-molldina, enn hvar sem hun fyrirkemur, og er eigi so miuk laus og lyktande sem hin fyrsta, er hun ekki helldur

só

so godrar natturu, þo er hun vel verd ad kosta omake og erfidismunum til hennar forbetrunar, vegna þeirrar miklu gnægdar hun i ser hefur af þeirne grodur-riku materiu.

4. Su jørd sem i ser hefur mo edur so kallad grafartorf, sem oftar er myr-edur deig-lend, se hun eigi ofmiog vot, edur halle nockud, edur hafe afhlaup: kann hun audvelldt med groftum og rennum gioraſt hæf til akurlands. Af friosseme hefur hun oftaſt gnægd i ser, og grafar torfid sialſt einkum þad svarta, er hinn beſte aburdur, se þad eigi miog so blandid med brenne-steine.

5. Er þar enn einslags mollð-art, sem er raud edur lios-raud ad lit, hana er hellſt ad finna i tunum og þurrlende; hun er somu artar og uppruna sem svart-molldin, enn ekki so god. Þær adrar tegunder, sem hun hefur i ser, og akurlandinu eru skad-legar,

legar, giora ad, hun er ur-ættud fra sinu retta kyne og uppruna, enn kann þo, ef i henne vaxa blomstur og gott gras, er þurr og liggur ekki lagt, med nockru omake giorast rett god. Se hun lag og deiglend, ræd eg eingum ad sa þar korne i: bere hun af natturunne gras, er hun best fallin til engis edur beite-lands.

Ad sidurstu er her ad merkia, þo su svarta molld hafe nockra rauda edur sot-rauda flecke þa hun er uppgrafin, er þad merke til malms edur rauda, sem i jord-enne er nalægur; enn so litil tegund gio-rer ongann skada, og kann audvelldt kæfast med rækt og aburde, so þvilik jord kann au alls otta upptakast til sadlands, ef grunndvollurinn er þurr og godur.

Leir-jørdin er su onnur hofud-art akur-jardar; og hefur miog annann upp-runa enn svartmolldin, þvi hvar þesse hefur sallt og fitu, hefur hin eintomis lim edur lim-

ande

ande materiu, enn baudar hafa element-jordina til upphafs. Hvar þetta tvent samankemur edur blandast (limid og element-jordin) lætur sig i liose ein seig og samanlimande jardar-art, sem ver kollum Leir. Hennar serleguſtu kenneteikn, hvar af hun kann þekiast, eru þesse: se hun tekin i höndina og kreist litid, er hun seig, þett og limande, ad litt er hun blaa, hvit, moraud og gul edur ibleik. Af sinne egin nattúru hefur hun eckert i ser af þeirre friossomu materiu, og er alldeilis ohæf til ad bera korn edur urter, enn þess hun blondud verde med annare feitre og friossamre jörd, edur anægum aburde: Þaa hun so er uppfyllt af þvilíku friosgunar efni, verdur hun so umbreitt, ad hun er þa ordin nær af bestu art: orsokinn þar til er þad seiga lim, hun i ser hefur, sem giorer hana miög hæfa til ad behallda þeim friossomu tegundum, hun einusinne fengid hefur.

Af

Af Leir-jörd eru margvíslegar arter, sem kenna er af lit hennar: þar er gul, brun og raudleit leir-jord, og eru sialdan godar til akurlands. Þar er og hvit- og blá-leir, edur leir-jord, sem med rettu undantakast frá þeim ødurgreindu, þvi baudar þessar eru annad-hvort hæfelegar til akurlands edur kunna þad auddveldt gioraſt. Hinn blaae er oftast lios-blaar edur bleik-leitur, þá jordin er rist edur stungin, siest þesse leir-art oft i flaginu edur undir grastorf-unni; þá hann þornar og liggur i solskyne verdur hann igraar edur lios-graaleitur, og er ætid blandinn med sande nockrum: Þesse blaae leir hefur i ser nockud af sallte, og kann þvi aud velldt gioraſt hæfur til sæd-jardar.

Hvit-leirinn er sá beste, og utheimter minst erfide til ad gioraſt frioſſamur; enn hann er nockud torgætur hiá oſs ad finna: enn blaa-leirinn finnst oft. Seu þessar tvær arter af blaa- og hvit-leir i rettann maata blandadar med sande og svartmolldenne, verdur hann

 aagæta

augæta godur til saidjardar. Leirsins nattura er ad vera þettur, seigur og samanlimande: her af kemur þad, ad hann helldur i ser vokvanum og þeirre friosgande materiu, og lætur þaug eigi syia, nidur i gegnum sig, edur hlaupa til botnsins, sem molldu, og einkum sandi er hætt vid. J solkine og þurka-sumrum siai menn hellst hans nytseme, ad hann ekki lætur audvelldliga uppþurkast, og gefur þvi avoxtunum einn jafnann og godann vokva: hvar sem hann er i botne a akre hefur hann twofallda nytseme: hid fyrsta er, hann helldur vokvanum i ser, hvorn hann sidan gefur aftur til avartanna. Hid annad ef mat-jorden (þad er grastorfan, edur þad efsta lag, sem ber gras og urter) er grunn, er ohætt iai miog gagnlegt ad plægia hana upp saman vid akurmolldina.

Sand og Steina frammreidir natturann af þessare somu smau Element jord. Þegar þar kemur til þess seiga og samanbindanda lims einn so sterkur varme, sem nogur

er

er ad herda og samanbaka jørdena og linid, verda steinar þar af. Þeirra efne er i fyrstunne blautt sem deig edur grautur, enn herdist so hvad af hvøriu fyrir hitans sifellda verkan; so þad er rett sem sagt er, ad þeir vare i jørdenne sem skedur a sagdann hatt: um hann er allt hid sama ad segia sem leirinn, ad hann hefur af sialfum ser og sinne eigin natturu ekki hina minstu krafta til ad bera gras og urter, sem ekki er ad vænta, þvi sandur er eigi annad enn smaa steinmolar. Hans hellsta nytseme i akur-yrkiunne, er ad giora jørdena lausa, sem flyter aukæta mikid þroska og framvexte urta og avaxta. Hann er og varmrar natturu, einkum sa svarte og vermer akurinn, Enn i þurka- og hita-sumre kynne þesse hans dygd ad verda skadleg. Þad er merkelegt ad af þessum þremur jardkynum sem eg hefe umm-talad, finnum ver sialdan eitt utaffyrirsig alleina, enn oftast blandad hvørt jardkyn med ødru, utan hvar natturan hefur af løge gengid fyrir ofvellde sioar edur vatna og so framm-veigis: Þad være og miøg skadlegt; þvi su

 sita

fita sem er i svartmolldunne, munde efter sinne nattùru samansioda og verda sem eitt seigt og fast lim, og soleidis samanbinda jordina, ad avaxtanna rœtur kynnu sig omogulega þar i ad festa; þvi hefur vor nattùrrike skapare hagad þvi þannig, ad þar finnst sialdan mollð edur leir, utan þar se nockud af sande i med, hvorsu litid sem vera kann; og oftar eru þær allar þriar i rettann mata af nattùrunne samanblandadar; af þvilikum blendinge verda þær mogru og ofriossomu jard-arter, sem eru Leir og Sandur, hluttakande þeirrar friossomu jardar, enn su feita og seiga jordin hæfare til ad mottaka regne, og allslags vokva, sem hiaalpar salltinu til ad renna, og lettir næringar saftanna ummrensle.

Til aalyktunar vil eg leggia her til nockur faa utvortis kenneteikn, sem eru obrigdul merke til godrar jardar. Þad landslag hvar grasid stendur þickt, er i-þvalt og vokva-edur lagar-mikid, og blandad med imislegum blomstururtum, so sem vallar-soley, kornsuru, Mariu-

stakke,

stakke, vallar-furu, smæra og skare-fisle, eru merke feitrar og godrar jardar, og til akurlands hæfelegrar, ef landslagid bæger ekki; enn hvar grasid er hart og stift, fodur-lett og æburdar-mikid og engi blomstur vara, er jordin mogur og ofrio: hvar smæ-edur græ-vider vex, er eitt vist merke til godrar gras-edur engismerkur, og kynne allvel sioraft hæf til sædlands, ef landslagid er haganlegt. Ad sidustu vil eg ræda serhvorium akurmanne, ad hann um framm allt æstunde ad kenna rett jordina sem hann brukar, hennar art, nætturu, kraft og verkaner; annars er þad omogulegt hann kunne ad gefa henne þann æburd og onnur betrunar-medol, sem henne eru samkvæm, edur velia þad retta sæde til serhvorrar artar: til dæmis su kalda og sura jord skal hafa þann æburd sem vermer og kæser þæ skadlegu vessa. Su harda og stifa skal hafa þau ræktar-medol, sem uppleysa. Su magra og ofriosa þau rett friofgande, og so fr. v.

Auk þessara adurtalldra hösud jardarta, med þeim greinum þar af springa, hefur jordin i ser otal adrar sem ekki koma voru male vid, og eigi eru so naudsynlegar einum akurmanne ad kenna, hvar fyrir þær undan felle.

III. Cap.

# III. Cap.

## Hvørnin og ai hvilíku plaitse leggia skal akurinn.

Sai hefur miklu aflokið sem lært hefur að þeckia rett jordina sem brukast skal til sæde-lands, og kenner hennar arter, verkun og gæde; enn það er þo ekki nog.

Eg mai kunna að leggia minn akur hagkvæmlega, bæde að landslage og vedur-fare, þvi annars verdur hitt allt onytt, hvør-su goda jord sem eg vel par til; þvi morg jord er hin aigætasta til hei-afla og beite-lands enn onyt til said-akurs, og velldur þvi giarna landslagið. Til dæmis er það: gras vex oft so gott edur betur ai myrum og sidlen-de, enn ai grundum og vall-lende; enn til akurs er þvilikt landslag (myrlende) alldri gott utan

t. þad verde þurt giort, þvi flest kornsæde vill hafa þurra og varma jord, og ridur þar mikid a, einkum her hiá oss i Íslande, sem oftast erum vaner ad hafa tvo vætu-sumur fyrir eitt þurkasumar, ad hvør sem villde leggia sig eftir akur-yrkiu, utvelde hallenda jord til sadlands, sem regnvatnid, einkum, þad sem fellur um haustinn, ekki gæte stadid i, enn rinne strax fra.

Hvar landslagid er litid uppdregid, so nockud halle fra a allar sidur: er þad nu ein feit og frioffsom jord, og hefur aull þau gæde i ser sem, talad er um i fyrir farande Capit: þad er ad segia, svartmolld med sandi og leir maatuliga temprud edur blondud einkum se nu matjordin diup og hafe einn godann leir botn (se leir undir þeirre efststu paultorfu) er hin besta jord til sadlands: þvilika jord þarf madur alldri ottast fyrir misvexte, einkum ef landid liggur i hlie fyrir nordan, landnordan og allslags nordlægium vindum, og skorte þar ekki dyke edur rennur

utan

utan og innan um akurinn, med annarre tilhlide-legre ræktun og handteran, sem si-dar skal sagt verda.

Ef jafnflot mork hallar litid til ein-hvorrar sidu, og hafe þau rettu jard-gæde i ser, er augætt til akurlags, og skal þa hofud-rennan edur grofturinn, sem ætid skal vera um akurinn, leggiast þar, hvort afhlaupid fellur, so vatn og slæmer vessar kunne þvi audvelldara fra ad renna.

Sunnan under brekkum edur hædum, ef jordin þar er god, og hallar þar med litid, edur i minsta mauta liggur so, ad vatn kann þar ekki-vidstanda, er god og hentug jord ad upptakast til akurs.

I laugum og dældum millum hollta edur hæda, og ligge landid hautt, so vor- og haust-vatnid kunne ekki ad standa þar i, er gott akurstæde ef jordin er god, og þar koma aunæger grefter til.

Í hvommum med ám og vatns-föllum, edur ödru þvílíku landslage, er oft vel fallid til akurlands; þar finnast giarnan þurrer balar edur eyrar grafe vaxnar, hvar ekkert vatn kann stadnæmast: þar er og tídast ad finna þær þriár höfud-arter, molld, leir og sand, mátulega blandadar; hefur oftast hlie edur afdrep fyrir nordlægum vindum, og er tídum hid besta eng.

Ár-edur vatna-backar, sem liggia so hátt, ad ekki yfirflæder, utan í stærstu vatnavöxtum, af leir og snió-vatne af vörum, þar vex tídast elding blöndud med litlum grávide, edur puntur og smára-grese, og er hin frióssamasta jörd, einkum hvar platsid er sinu-rikt, og eigi hefur verid lenge slegid; þar hafa menn og þær þriár ádur umtöludu höfud-arter, sem náttúran siálf hefur hofliga blandad; þvílíkt landslag ef þad er ánægianlega afgyrdt med godum afhlaups-rennum, sem lett er, þar þvi hallar tídast frá ánne

edur

edur til, helld eg yrde hid frioſſamaſta fyrir ſumar arter af vor=ſæde, ſo framt kornid være adur landvant; enn flatre mork edur berſvæde er alldri ad trua, fyrir framande og ovana korn=ſæde.

Hvar ſen, uppſprettu=vatn edur ſo kollud Kalldaverſl kynne ad vera i godre og hagkvæmre akur=jordu, og madur villde eigi onyta landid fyrir þar ſkulld, er miog adgætande, ad þau ſeu vel og dyggeliga frammſkorinn med diupu ræſe, ſem næe til afhlaups=rennanna, ad þau ekki næe ad ſtauda i akrinum, og fordiarfa korn=avoxtinn med þeirra kolldu og ſkadlegu guſu: þvi=oll uppſprettu votn eru miog kolld, og oholl fyrir korn=akur.

Brattar breckur edur hæder er ſkadlegt ad taka til akurlands, þar ſigur vokvinn og frioſſeminn oll til lægdarinnar, og kæfer ſo þad hælfa af ſædinu, enn hallft ſkræliſt af þurk og frioſgunar leyſe.

Joſn

Jofn og flöt mörk., hvar su umm liggiande jord er nockud hærre, og eckert afhlaup hefur, kallast sidlende: og er su laka-sta til akurlágs.

Sunnan undir fiöllum, sem liggia mot solu, edur i diupum dolum, sem hafa um sig fioll á allar sidur, einkum ligge dalminnid mót sudre, sud-vestre, land-sudre edur sudlægt, er ætid ad vænta betre á-vaxtar, se jordin godrar náttúru, enn á flatlende; þvi fiollinn giora ad solarinnar og lofts-sins varme verdur þar ávallt frostugre, og doggin somuleidis gnægare, og nordan-vindarner kunna eigi so áudvelldt, nær ser þar med þeira kallda blástre.

Ad sidurstu er þad ein viss regla, ad akrar skulu leggiast (so mickid sem mogulegt er) mot sudre og sudlægre átt, og stilliist so til, ad þeir hafe hlie og afdrep, so mikid sem verdur fyrir allslags nordlæg-um vindum.

IV. Cap.

# IV. Cap.

## Om jard-blendinginn.

Eingum mà þad virdast undarlegt, ad eg hefe nockrum sinnum her ad framan vikid à um jard-blandinginn.; þad er einn mate i utlondum, hvar Bumanna er mest i jordenne og hennar avoxtum, enn landit so nabylt, ad ekkert mà missast, ad þeir, sem hafa stikke af ofriossamre jord, sem ongvann edur litinn avoxt ber, hialpa nanntvig natturunne med kunst og adburdum, og blanda jordina eftir hvorrar jard-artar asigkomulage; til dæmis: su ofriosa leir-jord, sem bæde vantar sand og molld, verdur blondud med þvi hvorutveggiu: sama er um sand-jordina, þa hun ekkert hefur af leir og molld, skal henne hvortveggia meddeilast; og molld-jordin, sem hvorke hefur

sadn

sand edur leir, utkrefur það í sama mata: að sonnu kostar það heilmikla fyrirhöfn, enn lukkast þo avallt algæta vel, og launar rikuglega omakið.

Svart-molldin þarf alldri að blandast, fyrir þá orsök, að hun se ofriossom, hun er tiðast offeit, og drífur kornið upp, meir i straa enn kiarna, sem skeðe hiaa þeim utlendu bændum, er sadu hiaa oss, og þaa maa hun tempraft með leir og sande, Því flest Korn-sæde er ánægt með magrare jörð, enn allflestar alldingarðs urtér. Auk þeirrar margföllðu nytsemi, sem jarð-blendingurinn færer með ser, sparar hann mikið svart-molldina, til dæmis: hvor sem hefur litið stikke af diupre alldingarðs jörð edur svart-molld, maa það rísast um, og breiðast yfir kringum liggiande jörð, ef magrare være, og plægiast vel þar saman við. Grundvöllurinn af því plaatse, sem jordin var tekin fraa, skal og i sama maata plæglast vel upp, so framarliga ekki eru i

bot-

botninum skadlegat jard-arter; annars skal þangad tilfæraſt frá ødrum ſtødum leir og ſandur, og plægiaſt vel ſaman vid: at þeinann hatt vinnur madur tvo akra fyrir-einn, ſem bæder eru af ſomu gædum.

Hvernig jard-blendingurinn ſkal i rettann mæta tempraſt, edur hvad mikid akurinn ſkal i ſer hafa af hvørre jørd-art; þvi kann akur-madurinn ſialfur nær ad geta, enn einn annar kunne þad ſo gort med pennanum utmæla; þo vil eg ſegia minn þanka:

Þeir tveir partar ſkulu vera leir, hinn þridie ſandur, og fiorde molld, og þo minna ſe af molldenne, munde eigi ſkada; annars helld eg ekki ſo miklu varde, ad þeſſu ſe ſo ſtrik-rett eftirfylgt.

Nockur merkismadur, i Svia-rike hefur brukad, þvilikann mæta ad blanda jord ſina: hann hafde ſtikke af ſand-jord, ſem

sem ekki var eitt grænt strá, enn villde þo hafa gagn af landinu, það var nær hreinn sandur, vaxid, yfir med þunnre mosa-skán, og sand gigar i millum, nær tunnuland ad stærd. J nærmunda þar vid, láu nockrer myrpollar edur tiarner: hann tok ser fyrir, ad láta grafa fram tiornena, og veita ollu vatninu burt, enn eftir, þá þurrt var ordit tiarnar-stædid, let hann grafa upp jard-bleituna (sem nu var þurr ordin) af botninum, og keira (*) yfir, adur-greinda sandjord, þar til komid var hálf alin ad þickt yfir jordenne, og breida yfir allt. Þegar þesse myrar-jord hafde legid þar á viku tíma, hafde hun so sigid, ad eigi var nu hærre enn eitt qvartel yfir ollu landinu: Þenna litla lands-part lett hann nu plægia so diupt, sem ske kunne, og það oftar enn einusinne, þar til myr-jordin og sandurinn voru vel samblondud. Vorid eftir sáde

hann

(*) J utlendum bruka menn sleda til ad færa ut áburd á eng og akra.

hann þar i tveimur tunnum hafra, og feck sextan um haustid. Arid eftir lett hann aka þar a somu myrar-jord eitt qvartel þickt yfir ølla landinu, og plægia sem fyrr. Haustid eftir sade hann þar i einne tunnu rugs, fiorum døgum eftir Laurentii-Messu: Strax um vorid gaf þad sterkt stra og langt ax, nær eitt qvartel. Um haustid feck hann þar af tolf tunnur rugs, og bar þesse akur sidan godann avoxt i tiu ar, og feck ongvann aburd.

Nu er þad ekki staxanlegt, ad akur-yrkian gange nockru sinne so vidt i voru fodurlande, ad os skorte jord, bæde hofum ver hana mikla og goda: þo er betra ad vita, enn ekki; og Skaparinn kann giora margt og undarligt.

Ad sama hatt kynnum ver þa endurbæta nockud af þeim miklu sondum ver hofum, ef þorf krefde, og giora þa hæfa til akurlands; einnig leir-hollt og myr-len-

de: eun hvar dyia-edur myr-lende ekki være nalæg til sandsins forbetrunar, kann molld og godur leir giora sama gagn; være þar þa til lagt, nockud af godum aburde, sem sidar skal umgeta.

Leir-holltinn a sama hatt med myrar-jord og sande, ef hann være þar eigi adur, og myrar edur deig-lende, sem adur være þurrt giört med rennum, og grafningum med nockrum leir, þo einkum sande, þvi hans munde þvilikt landslag hellst vid þurfa.

Flest myrar-jord er af natturunne feit og friofsom, og jafn-vel kvikkinde og dyia-jord, sem sia er þar af, ad hun er hin besta til jard-blandings, ad giora magra jord friofsama; enn þad mikla vatn, sem ætid er korninu ohollt, ad eg eigi tale um þa bitru vessa og ymislegar arter af malm-tegundum, og þar af komande malm-sallte, med ödru fleira, sem skadar kornvoxtinns orsaka, ad korn kann ekki vaxa þar i, og i sumum

sumum ekki gras. Þegar þvílik jørd er vel þurr ordin, og soleidis umgrafin, ad vatn kann alldri standa þar í framar, og blønduð vel med sande og leir, (hvar annad hvort edur hvørtveggia vantar) verdur þad hin besta sád-jørd fyrir flestar arter af vor-sæde, þvi þá eru þeir skadlegu vessar edur tegunder burtroknar, og þær friofsomu tegunder, kunna þá frit ad æfa sinar verkaner.

# V. Cap.

## Om aburdarins verkun i jørdenne:

Einn godur aburdur og aunæg plæging edur med hvoriu mote jørdinn verdur vel molud og laus giord: er tvennt mikils-verdt i akuryrkiunne.

Vid þesse tvø medøl, kann allt, þad jørdena vantar af þeim rettu friofgu-nar kroftum ad forbetrast. Þad kann ske med tveunu mote, jorden ekki bere avøxt.

1.) Ad hun er hord og oþiaal, so rætur avaxtauna kunna ekki ad skiota edur þreingia i gegnum hana, og festa sig þar i.

2.) Ad hana vantar þa rettu friofgunar materiu.

Allt þad sem rædur bata odrum hvorium þessum breste, heiter aburdur edur ræktar-medol.

Sa aburdur sem er af þeim fullkomnu gædum, giorer tvofalldt gagn:

1. Uppleyser hann þa grodur-riku materiu, sem i jordenne er, og setur hana i gang og hræring, ella hann eikur hana sialfa. Þad eina giora marger, enn faaer hvorttveggia.

Allslags fuid gras, rudde edur halmur, urter og awexter, allslags fuinn vidur og hvad honum tilheyrir, brunnid haugtad, Foldir og annad þvi um likt eykur friofseme i jordenne. Sidan vil eg tala um hvors verkun fyrir sig: enn siafarþangid edur þare, aska og serhvad, sem i

ser hefur gnægd af Kali-salltinu, vekur þar friosu materiu, og setur hana i hræring. Her af kemur þad, ad hid fyrsta er best fyrir magra sand-jord, hid sidsta þeirre stifu leir-jord hallkvæmast.

Aller þeir hluter, sem hafa mikid i ser af element-jordenne, situ og Alcal-sallte, eru goder til aburdar: fenadarins mykia hefur nægd af ollu þessu: so lenge hun er ny og obrunnin, er hennar verkan kenneleguft i ad vekia þa friossomu deile jardarennar. Þegar hun er brunnin og suin ordin, eykur hun mest grodur-efnid, enn giorer þo sina fulla skylldu i þvi fyrra, se jorden eigi þvi hardare, og vinnur einum mogrum akre hid besta gagn.

Þad er mællt, ad sa akur, sem tadbur er med nyrre mykiu, se alldri lenge frior, þar hvert i mote hinn, sem ræktadur verdur med brunnu tade, hefur ætid langvarande gagn þar af.

VI. Cap.

# VI. Cap.

## Um aburdinn, og hvørninn han verdur til buinn af imsum hlutum i natturunnar-rike, þar sem sa mæte er brukanligur.

Alkend er su nytseme, sem aburdurinn giorer i buskapnum, og aller vita hvilikur skade þad er, hvar hann vantar. Þvi hafa hyggner, men i ødrum londum fundid medoll her i mot, og tilbuid aburd af øllum þremur natturunnar rikium, ja, af sialfu steina-rikinu brukad sandinn til imislegrar gagnsemdar fyrir jordena, so sem til ad giora hana lausa og adskilda, ad þerra deiglende, sem upp fyllde taka til akurs og so fr. v.

Í utlöndum bruka menn kalk og mergel (jard-merg er so kallast) til áburdar, hvar þad er ad fá; enn hvor-tveggia vantar oss. Þad er ekkert i urta-rikinu (edur medal allslags ávaxta jardarennar) sem eigi kunne brukast til áburdar, sem ádur er umgetid, þegar þad er rettiliga tilbuid: Fuid hris og allt, hvad af vidartage er onytt, hvar þad fellur, kraftalaus rudde, sem til einkis er annars nytur; allt þvilikt sorp og smælke, sem menn kasta burt til onytis, skyllde helldur leggiast á haugbotninn edur i haug-renslid; þar funar þad fliotast og verdur beste áburdur. Þang og þare, er ypfrid gott til ræktar bæde fyrir eng og akra, einkum mætte þad ádur haugbrenna; þo kann þad ohullt brukast, nær þad hefur rotnad um hrid i fiörunne, sem tidt sker á sumrum, þá mikid berst, á land þar af. Þetta hafa forfedur vorer vitad, og brukad miog þennann áburd, ad rækta med sin akurlönd: þad bevisa þau morgu skiöl og kaup-bref, sem menn hafa

her i landinu fyrir morgum Presta- og Bænda-gordum. Nordmenn og Sviar tilbua aburd þar af a fylgiande hatt.

Hvar þare fellur mikill vid siafar-sidu, er þar tekid so mikid af, sem hvor hefur ad-burde til, edur nægiast kynne til fyrirhafan-de asetnings; aka þvi til bæiar edur nærre hvar akurinn edur engid stendur, sem ræktast skal: þar giora þeir ser haugstæde, og leggia a botninn eitt lag af þange, annad þar ofan a af nyrre mykiu, og hid þridia af molldar-hnausum, afskornum þufum, myrar-jord, og samanrifnum orræktar-mosa, hvad af þessu sem næst er fyrir hendenne: mosan rifa þeir upp af myrunum. So er þa byriad a ny med þanglagid, þar a ofan kemur mykiulagid, og so molldar edur jard-laged; allt sem adur er sagt, og hallda vid so lenge þar er nockud fyr-irliggiande safn af þara, jord og mykiu: þetta lata þeir standa i tvo ar, og briotast i haugi-num, og er þad þa ordid hinn beste aburdur til allslags jardar.

Eg helld omaks verdt ad reyna ad leggia þang saman alleina sem nockru nemde, og lata þad so standa og brenna um tveggia ara tima, hvort þad munde eigi giora nær sama gagn og kalk, med ad uppleysa stifa leirjerd.

Af dyra-rikinu hofum ver ekki minne nytseme til jardarennar ræktar. Skarn og fenadarins mykia er þad, ver brukum ad auka jardarinnar frióſseme, og af odrum aburde vitum ver ekkert ad segia: hann er og-ágæta gódur, þar nogann er ad fa; hann kann og ad hialpa oss, so lenge vor büskapar-mate vikur ekki fra fedranna setningum; enn hia odrum þiodum, sem hafa mikla jord ad rækta, munde þad skamt na.

Nauta- og kua-tad er deigrar natturu; þar i mot sauda-tad er eigi so deigt, enn af naturunne varmara enn mykian, enn þo ekki allt so gott til aburdar og ei so ræktar mikid.

Hesta-

Hesta, edur hrossa-tad er pad varmasta og pur-rasta af pessu hvorutveggiu, og par hiaa mag-xara, enn er po hinn hollaste aburdur fyrir kallda og deiga jord, po er ad merkia: ad fodurgædinn giora mikid til aburdarins kraftar.

Sumer bruka pann maata ad blanda sa-man allslags tade, i peirre meiningu ad hvort skule draga daam af odru, paa pad hefur sa-manbrotist, og verda allt eins gott: enn eg helld allt so gott ad hvort se fyrir sig.

Enn laata adrer aaburdinn standa i hau-gunum og brenna, og pad er alkennt ad haug-brunnid tad er hinn beste aaburdur.

Sviar, sem med sonnu maa segiast, ad fyrirgange flestum piodum, er nu eru aa nor-dur-londum i natturunnar ransokun og buska-par hygginndum, hafa uppfundid ein heppinn maata ad tilbua aaburd af jord og mykui aa fylgiande hatt.

Þeir taka leir þann hvita edur blaleita, hvar hann er ad fa, og aka til haugs, sidan uppgrafa þeir myrar-jord edur dyia, og færa til sama stadar, blanda þessu vel saman, leirnum og myrar jordenne, og leggia eitt lag þar af at haug-botninn, alinar þickt, þar ofan at leggia þeir annad lag af nyrre mykiu eins þickt, sidan kemur annad at ny af þessare leirblondudu jord, og so framveigis at vixl, þad eina lag af mykiunne og annad af jord, og hlada so lenge sem synist og safnid tilhrokkur. Her er þat ad merkia: þvi hærre haugurinn verdur, þess þyckra skal mykiulagid vera, og þad efsta sem skal vera af mykiu, se þykvast. Þetta lata þeir standa i hauginum þriu edur fiogur aar, þar til þad er fuid, brunnid og hefur utbrotist: so er þad ordid hinn beste aburdur hæfiligur til allslags jardar, sem bæde gefur þeirre mogru nægann friofgunar kraft, og losar edur uppleyser þa hordu og stifu.

Best munde ad hafa tvo edur þriu haugstæde til þessa bruks, so madur kynne ad safna i sitt hvort aarid.

I Norege hafa þeir adra adferd, litid sundurleita fra þeiere sem brukud er i Spia-rike, enn kemur þo allt nær i sama stad nidur. Hvar peningur gengur i heima-hogum a sum-rum, hlada þeir kvi, edur rett ekki langt fra gardinum a hentugu platse, þa einu til asau-dar, og adra fyrir naut-pening; botninn leg-gia þeir med griote og fella med litlu kalke; hvar þad er eigi til, er torf edur vidaraska allt-eins god, se hun vel felld og trodin nidur millum steinanna, sem moguliga verdur; þvi þa deigian kemur i hana, verdur hun so þett, ad saftin af tadinu gengur þar ekki i gegnum. Þetta kalla þeir Fefold, og þar inni stendur peningurinn medan miolkadur verdur. I þessa fold fæera þeir þa leir (vel ad skilia af þeim goda) og allslags torf sem til hafa, hvort sem helldur vera kynne grundar-edur myrar torf, rist edur stungid, nytt edur gamallt, afskornar vallar-edur myrar-þufur, oræktar mosa, og an-nad þess slags: blanda þessu saman, edur leg-gia hvort fyrir sig (sem sama er) nedst a bot-ninn a foldenne; þar a er rekinn peningurinn

og laatinn troda þad nidur, og tedia þar ofan a, þar til komid er so mikid ad vel er hulid torfid, og nockud yfir, sem nægia synist: verdur þa infært a ny sama og fyrre, og lagt a sama hatt ofan a tadit sem lagt var a botninn eitt lag, og peningurinn þar yfir rekinn þetta er laatid ganga so lenge peningurinn verdur miolkadur ute þad sumar.

aarid eftir giora þeir adra fold og bruka alla somu adferd, sem brukud var vid hina fyrre, sem þa er laatin standa, ad tadid skule brenna þar i, og jafna sig. Eftir ad þad hefur þar brotist þriggia aara tima, er þad af morgum allitid betra enn mykia til ræktar, fyrir sumar jardar-arter.



# VII. Cap.

## Hvilikur aburdur bestur og hæfelegastur se til ser hvørrar jardartar.

Kynne einslags jord ad bera allslags korn- edur sad-arter, være þar ekki so margt athugasamligt vid akur-yrkiuna, sem þo annars er; enn þad fer miøg fiærre, sem sidar skal sagt verda: sama er þad ummaburdinn, ad einn og hinn same aburdur, þott hinn beste se, er sidur enn ekki godur edur brukanligur til allslags jardarta. Margur kann sa aburdur vera, sem af sinum egin natturligum krafte er miøg godur og hinn hagkvæmaste þeirre einu jord, og kann vera miøg skadligur þeirre annare jard-art; þvi er þad miøg athuga-

athugaverdt, ad vellia hagligann aburd til serhvorrar jard-artar.

Eg hefe her ad framan talad nockud umm molld-jardarennar dygder: su er ein hennar nattura, ad hun er oftast laus og opin. Pad er i sialfu ser miog gagnsamlegt fyrir avextena, enn kann audvelldt verda skadsamlegt, einkum i sterkum þurkum, þvi audvelldara sigur þa vokvinn i gegnum hana, og þa hann er burtu, er urtinum miog hætt ad skrælast og uppþorna. Verde nu þvilik molld-jord blondud med adurnefndre fold-mykiu, sem umtalad hefe i fyrirfarande Capitula, og einkum hafe mikid komid i foldina af þeim goda leirnum, heldur hun sinum gædum, og fær i sama mata allt hvad hun vidþarf af leirsins ægæte.

Til ad rækta þa hordu og stifu leir-jord er fold-mykia ysrid god: einkum hafe hun brotist i foldenne i þriu edur

fiogur

fiogur ar. Brunnid haugtad, og allt hvad af urta-rikinu er giort til aburdar, funad og ordid ad molldu, er eirnig gott til ad rækta leir jördena, þegar þad mar missast frar þeirre mögru sand-jord, til hvorrar frioſſeme ad þvilikur aburdur er hinu allra beste, þar hann hefur i ser hina mestu gnægd af þeirre grodurriku materiu: þo hello eg eckert se betra, til ad giora þar stifu leir-jord hæfa til saidlands, enn þang blendingurinn edur sar aburdur, sem giordur er af mykiu, jord og siarfar þange, og um er talad i fyrirfarande Capitula. Þang-blendingurinn mar og vera agæta godur i deiglende edur myrar-jord, hvar hun verdur urþerrud og upptekin til akurs; enn þo munde haug-brunninn þari hinn hentugaste til þviliks landslags.

Þegar sand-jord edur su, hvorrar meste partur er sandur, verdur upptekinn til akurlands, mar hun blandast mautulega bæde med leir og molldu: til þvilikrar

 jardar

jardar er brunnid haugtad, og allt hvad af urta=rikinu kemur hid hallkvæmasta. Foldtad er og sand=jordenne miog hagkvæmt.

Her ad auke ridur þad miog mikid á akurmannsins adgætne og hyggiu=vite, ad hann lære af reynslunne ad þeckia, hvilikur aburdur best hagar þessare edur hinne jard=art, og þar verdur valla so vist tilgetid, einkum ef loftid edur jard=arternar leggia þad nockud i veginn, sem ekki er almennt, og ekki kunne fyrir ad siaist.

Þad er almenn sogn, ad eitt hlass af foldtade se betra til ræktar, enn fim af tomre mykiu.

Hvor sem vill taka einn magrann akur undir rækt, skal strax eftir haust=ykiuna laata aka þar á tade, og breida edur moka vel ut hlössunum, og plægia sidann jordina, ad aburdurinn mi=liest

liest þar nidur i, og samblandest henne vel, og stande þannig osæd veturinn yfir: ad vore komande skal hun aftur plægiast, miliast og umturotast, adur i hana verdur sæd.

Nu verdur ekki um haustid komid hvoru tveggia vid, ad tedia akurinn og plægia: þa so sker, skal þo plægingin ekki undanfellast strax eftir haust-yrkiuna, enn láta þa bida med aburdinn inn til friosa tekur, og skal enn ekki undanfella ad moka vel ur hlossunum.

Eg medkenne, sumir þessir mattar ad rækia jordena, eru heil mædusamir fyrir akurmanninn, einkum ef jard-blendingurinn skal alleina ske med fold-tade, þangblendinge edur ödrum aburde; hvort sem hann er sialfgiordur, edur a þvilikann hatt tilreiddur, sem sagt er i fyrirfarande Capitula; og þar vill þa heilmikid til ad safna so miklu ad nægia skule, einum sem hefur

marga akra; enn hann mai hugga sig þar vid, ad hans sveite verdur honum endurgolldinn med rikuglegum jardarennar afgroda, og auk þess stora abata, sem hann ai ser visann i godum kornvexte, er mest hans erfide innefalid þar i, ad safna og tilbua aburdinn, og þegar þar er fengin nockur talsverd gnægd af, skal þad berast ai akurinn i samfelld tvo air. Verde hann þar med vel taddur bæde airinn, þreinger hann eigi til aiburdar i full sextan air þar eftir, nema kanske litid af þunntaborinni mykiu edur hrossatadi: þo sosrámt marur siaie kiarngædinn take ad rirna i axinu, og se eigi so korn-fullt, sem verid hefur. Enn þad er, her vid athugande, ad akurinn verde hvort air vel plægdur og moladur, og se þad eigi umdann fellt sem næger, er likast aiburdarins ekki medþurfe.

VIII. Cap.

# VIII. Cap.

## Um akur-verkfærinn.

Eftir þad akurinn er ræktadur og taddur, fellur næst ad hann skule plægdur verda undir utsædid: enn þa er ad þeckia verkfærinn og þeirra bruk.

Plogurinn er þad ypparsta verkfære i akuryrkiunne, hann er miøg margs-hattar, og brukar nálliga sin þiod hann med hvert slag.

Sa er brukadur er i Sellande, er sa þingste, ordugaste, og a allann hatt verste og erfidissamaste, af ollum þeim eg sed hefe; og þad var sa innkom til Islands med þeim framande bændum, sem kylldu yrkia þar jordina. Enginn hefur

mer virdst betre edur hæfelegre til brúkunar í Íslaude, enn sa Norske plogur, bæde er hann lettur med ferdar, fer vel i jordenne, hægur fyrir gripena ad draga, og kostnadar-litill, og hann er sa eg her asmaula, enn læt prikkia hans mind a toblu, sem stendur sidst i bæklingnum, til frekare upplýsingar fyrir þa sem villdu giora þar eftir.

Under-edur aur-viderner (er so heita) eru af tveimur nær alinar longum eikikefsum; þad eina, sem er sterkt og tre-mikid, er keiprett, hitt annad i bogid, sem fellist til þess retta ad framan, og giore sem einn odda, enn slaist sundur þeir aftare endar, og giore sem einn klofa; i millum þeirra aftare endanna gengur einn aas 3 qvarr. ad lengd vel sterkur, sem fester þa bauda, og giorer bilid mille þeirra skal vera, enn þeir frenire neglast saman vel trufast, og þar framan i kemur plog-jarnid, sem er þrihyrnt, vel halfst-alin at hvorn kant, sterkt og fullkomid med flotum

tangs

tanga af jarne, tilheiriliga sterkum, sem stande rett linis undan oddinum er frammvender, og gengur inn i sagdann odda a aur-vidnum, og setiest vel fast med tresleigum edur jarn loku. At þad binga stikke til hægre handar er negld þunn fioll, sem heiter aur-skifa, og vellter plogtorfunne upp, medann, ardurinn gengur. Upp af þvi retta keflenu af aur-vidinum, ganga tveir sterker uppstandarar setter faster þar i, upp i gegnum plog-asinn, sa eina framar og se festur med tre-fleigum edur loku, hinn annar aftur vid endann plog-assins, hvar upp af gengur stong, sem annadhvort er sialfgiord af uppstandaranum, ella af odru tre sett þar i, ein alin ad hæd, med hune ofan a; þad tre kallast plog-stertur og þar um helldur madurinn, sem gengur eftir ploginum og styrer honum: þar med letter hann ploginum upp, og þrister nidur eftir, þvi sem hann skal ganga diupt edur grunnt i jordenne. Allt þetta setiest so fast, ad ekkert bile þegar brukad er; þad er stor

 verka-

verka-tof. Plog-asinn sialfur er eitt langt einlægt tre, nær 5 alner ad lengd, siwalt aftur til mids, enn ferkantad þadan fra. Fremst a þeim fremre enda, sem framgengur mille hestanna, er holkur af jarne sterkur med krok a, þar vid eru tangernar fastar giordar, sem ganga framm fyrir brioftinn a hestunum. Nidur ur plog-asinum gengur eitt jarn, sem Ristill heiter, sterkt og jarnmikid: sa endinn i asinum stendur er ferkantadur, hinn sem nidur vender, er biugur framm, hefur egg i bugtenne og flatann backa aftan fyrir: þad setiest so i asinn ad gange nidur i jordena, nær halfum þumlunge leingra framan vid plog-jarns oddann, og passe rett þar framm undan: Þetta jarn er til ad skera fyrir ploginum þa einu sidu torfunnar lausa; plog-jarnid sker þa botninn, og molld-skolin vellter henne um, og þetta sker allt undir eitt.

Þesse

Þesse plogur hefur enginn hiol ad framanverdu sem sa Sellendske og marger adrer, þau giora ekki helldur minsta gagn þyngia miklu framar. Viderner og heila verkfæred er lett medferdar, audgiort og kostnadar hægt fyrir hvorn medal-bonda.

Akur-rifurinn (harrinn) er eitt verkfære brukad til ad giore akurinn lausann: hann er ein nær ferhyrnd grind af eikivid þarflega sterk, þar i standa 4 þver-rimar sterkar; i þremur af þeim standa 6, og odrum þremur 7 jarnbroddar, her um þriggia fingra langer og meir enn fingur-diger, a vixl; ad hvor ekki gange i annars fari þa dregid er yfir akurinn, hringar tveir sterker eru i hornunum a vixl, þar i eru taugernar, sem ganga fyrir briostinn a hestunum, sem draga hann um akurinn framm og til baka: hann rifur molldena upp og molar kekkena þar i, so akurinn verdur laus

 i bot-

í botninn: brukast og til ad rifa nidur kornid.

Veltan edur Rullan er hid pridia verkfære sem brukast til akursins: Veltu-stockurinn er sem ein ferhyrnd grind af fiorum triam, tveimur storum og breidum sem eg vil kalla kalka, og odrum tveimur serkontudum, sem ganga gegnum kalka-endana: Pau bæde hafa hring edur hanka í midiunne af jarne sem halldast skal í, þar rullan er brukud. Kalkarner eru linurettar ofan, nedan ern þeir breidaster í midiunne, og dregner upp til beggia enda; midt í henne stendur eitt sivalt tre, heilþickt og þungt, sem passe rett, og gange allt ut ad kalkunum beggia vegna. Rett ur midium endunne at þessu tre ganga jarn-fleinar tveir sterker, ut í gegnum kalkana beggia vegna, og se allt sem lidugast. Hün er mest brukud til at slietta akurinn med eftir utsædid; sumer lata hana og ganga yfir hann, þar grasid er vaxid sem fingur-hatt, til ad mil-

ia

ia edur briota skorpu og skan, sem setst, einkum a leir-akur; enn eg helld hennar mege an vera.

Sigd er hid fiorda verkfære, sem brukad er til ad skera kornid upp med, þa fullvaxid er: hun er alkennd, og kan siaust a tyblune.

IX. Cap.

# IX. Cap.

## Um dyke, grafning og deiling akursins.

Ef her skyllde fylgia þeirre sömu, röd og reglu sem verkid sialfst hefur: neita eg ekki ad þesse capitule ætte ad vera, hinn fiorde i Rodenne; þvi þad er ætid hid næsta þar jordin er utvalin sem akurmanninum virdist hagleguft, bæde ad jardgædum og landslagi, ad akurinn verdur afskorinn med rennum, og grafningum, og skift sidan, Ökrunum, þar inni, adur a er borid edur framar adhafst: enn eg hygg þa kennt verdur hvornig verkinu skal haga, ad litlu skifte hvort þad er giort fyrr edur sidar.

Engum vil eg rada ad taka mikid fyrir sig i einu, allra sidst þeim efnalitler eru,

eru, enn rækta betur þad litla. Þad er heimskra manna háttur ad hafa marga akra, og rækta alla, illa so verdur minne eftir-tekia af þrimur edur fiorum enn af einum godum sem vel er ræktadur, og sidar skal sagt verda.

Þad er kallad Tunnuland i Danmørku og vidar at Nordurlondum, sem tekur mote einne tunnu utsædis, edur so stort plats, sem einne tunnu korns verdur mat-tuliga þickt i sad: þad er eigi rett stor reitur, hefur i ser 14000 qvadrat alner, edur nær 40 fadmar i hvørt horn ad þremur alnum reiknudum i fadmenum: eg helld nog se at taka þad hàlfa her af ad giora raun med, og þo ei være meir enn fiorde partur, munde ærid fyrir þann efna-litla i fyrstunne.

Her skulu þar grafast diuper skurder edur grefter at allar sidur um akurinn, vel

þriar

þriar pælltorfur at dypt, sen 3 qvartel i botninn og hælf þridia alin ad ofan.

Molldinni, einkum ef hun er god, mæ kasta inn at akurinn, og plægia saman vid þæ adra jord: her er þæ ad athuga, ad rennunum halle ollum, þangad sem afhlaupid er. Ekki skadar þo stærra plaus se asmarkad, enn madur ætlar ser ad bruka i fyrstunne. Hvilikar afhlaupsrennur eru miog þarfsamlegar ollum sædsokrum, Þar i siga aller þeir bitru og skadlegu vokvar, sem ætid eru i nylendum (edur þvi lande alldri hefur verid sæd fyrre) sem þær fleyta, asamt ollu odru vatne er i þær hleipur af akrinum, burtu fræ sædlandinu; her ad auke veria þær sædlandid fyrir fenadarins ægange, sem miog er skadligur allskonar sædjordu.

Nu verdur landinu sem er innan, fyrir grafninginum skift i akra, mer þækte rædligast, ad akurinn være eigi breidare enn þrir, hædst fiorer fadmar. I Danmorku og i Svia-

Sviaríke eru þeir alldri hafder breidare enn tiu fadmar mest, enn so langer sem verdur og landid leifer. J Siælande hefe eg séd þar fimm edur sex fadma breida enn tvo hundrud ad lengd. Hvar hina minstu deigiu er ad ottast, og einkum a rug-okrum, bruka menn diupar afdeilings-rennur i millum akranna, sem liggia i afhlaups rennurnar, og se so hagad, ad vatn edur deigia kunne eigi i þeim standa: so kann ekkert vatn, stadnæmast i akrinum, enn a vel þurre jordu helld eg þessar deilings-rennur þurfe eigi dyppre edur stærre enn vel sionlegar.

Nu er akurinn lagdur sem vera skal, og hefur sinar afhlaups og deildar-rennur vel og i sagdann mata tilbunar. Þar fylger þar og næst eftir ad jordin giorist friofsom og hæfeleg til kornvaxtar, hvort sem helldur sker med jard-blendinge edur aburde, ef su verdur upptekin sem mogur er og ofriofsom; enn i Islande þarf eigi þvi ad sæta: þad er ad sonnu allt ny jord sem þar skal upptukast (sem allstadar er rad fyrir giort i þessum bæklinge; þvi akrar

hafa

hafa þar ongver verid i nockur hundrud aar) enn vid flesta bæe er þar so mikid missast maa af þeirre godu jord, og þesse sem fengid hefur af loftinu forrotnadre sinn og ödrum fleire orsøkum so mikla fitu og friosseme hræa og biturleik, mun valla þurfa aburdar vid, þar til kornvoxturinn hefur hana temprad, og eidt nockru af hennar hræa og ofmikla feitleika: og vid þvilika akra er ekkert, annad ad giora, enn plægia þaa strax sem þeir eru afdeilder.



X. Cap.

# X. Cap.

## Um Plæginguna.

Þa ollu, er at sagdann hætt niðurrað-
að, byriar plægingen: Hun skedur a fyl-
giande hætt.

Fyrst verdur plægd ein akur-rein rett-
linis, eftir endelangre midiu akursins: þesse
plog-torfan, sem fellur fra vinstre til
hægre sidu, og er hin fyrsta, er ætid sost
vid þa adra sidu; þa komid er til enda
sadlandsins, vender plogmadurinn hestu-
num og ploginum, og plægar adra rett i
mot hinne fyrstu, so nær, ad þær falle
saman og leggist yfir grasmonina, sem all-
tid er mille þeirra fyrstu torfuanna; Nu
er vendt hestunum annad sinn, og plægd

hin pridia torfann, sem fellur nidur i reinina, edur far hinnar fyrstu; þa hun er plægd jafnlaung sem hinar, vender madurinn ploginum pridia sinn yfir til þeirrar annarrar, sem enn liggur einstök a þa adra sidu akursins, og plæger þar hina fiordu torfu, er a sama hatt fellur i hinnar fyrre plats. Nu eru plægdar fiorar plogtorfur af akrinum, sinar tvær til hvorrar sidu, og þetta gengur so lenge nockud er ad plægia af þeim akre, so þa reinin er til enda plægd vid þa einu sidu, er farid yfir fyrir til þeirrar annarrar, og þar plægd onnur a sama hatt, so allar plogtorfurnar vellta upp ad. Her er þa miog ad vanda, ad reinin plægist linu-rett, annars verdur akurinn vaistaulegur. Þvilik plæging brukast alltid, þar ny lendur eru uppteknar, og er þad þvi giort, ad akurinn skule verda litt upporpinn, edur far sem litinn hrigg i midiunne, so halle fra a badar sidur, sem lett er adskilia, þar molldin velltur a badar sidur upp ad,

og

og eftir nockur aar verdur akurinn brattur edur utaf-hallur fra baadum sidunum, sem skadar friosiemena; enn vid þvi verdur so giort, ad akurinn er þa plægdur fra hægre til vinstre, so plogtorfan fellur nidur ad, og byriast þa plægingiun ytst a jodrinum og med þvi mote jafnast hann.

Þad skal athuga þa plægt er, ad plogtorfan vellte vel um, so grasrotinn ligge nidur, einkum vid nylendur, hvar gras hefur vaxid mikid, so suna ræturnar þvi fyrre og giora ræft i jordenne; enn nae þær ad vaxa, gefa þær illgrese, sem dregur kraftinn fra sædinu: Falle torfan ekki vel um, skal madurinn, sem gengur eftir og styrer ploginum, þrista henne nidur med fætinum undir eins og plægt er.

Þad ridur a jardgiædunini, hvad diupt edur grunt skal plægia. I diupre jordu, edur hvar godur leirbotn er under, er betra ad plægia diupt, vel yfir eitt

qvartel; þad batar mikid akurmolldina, ad sia gode leirinn plægist og blandist þar saman vid; enn se rauda-jord, melur edur oræktar-leir undir akrinum, helld eg best ad sneida þar hia, og plægia helldur grynnra.

Hvad þeirre rettu plægetid vidvikur, þa eru þar um imsar meiningar: jeg hefe talad vid skinsama land-menn, sem ekki vilia annad heyra, enn jordin skule plægiast med vaxande tungle, þvi þa se hun lausust og best buinn undir allslags erside, og take best mote aburdinum. Hvad aarsins tid ahrærer, og se þad i medallage feit sandjord, sem strax kynne sast, ma plægingin ske, so snemma sem jorden er stungu-þid; enn ef su feita, ja mar-ske of-feita og hraa molld-jord verdur upptekin, sem bæde er frek og hissug; þa er þad ad segia: i þa jord er eigi radligt, ad sa nockurskonar korne, nema, hun være pæld og barin sidan, sem sidar skal sagt verda;

ella

ella drifur hun þad upp i langt strai, sem gefur litinn edur engann kiarna.

Hvilika jord þækte mer rauligast ad plægia fyrst vorplæging nær Hvitasunnu edur þo sidar være, og lata so akurinn liggia sumarid yfir, ad gras-ræturnar funudu, og jorden utgæfe þai skadlegu vessa. Haustid eftir skal hun plægiast aa ny um Michilsmessu-skeid, og liggia enn þann vetur. Vorid eftir skal hun plægiast pridia sinn, so fliott jordin er þyd ordin ef gott vedur gengur, þai eru gras-ræturnar funar ordnar, og sai sidan strax þar i bæde bygge og hofrum, þo hveriu fyrir sig, ad reina hvort best villde þrifast, og rifa sædid vel nidur i jordena. Þai kulldar ganga og vorhardt er, helld eg betra ad bida litid med plæginguna og einkum med ad sai, være þad eigi allt of lenge, munde þo ohultara, enn voga sædinu i jordena undir frost og kullda: og su almenna sæde-tid helld eg verde i Islande um Hvitasunnu leite, og ekki fyrre aa Nor-

 dur-

dur- Nordaustur- og Nordvestur-landinu, einkum þar til fengid er heim=aflad korn.

Þo akurinn se plægdur litt fyrr og standi, so og bide um hrid eftir hentugre sæde-tid, mun eigi stort skada.

Lykkist korn-voxturinn hid fyrsta sumar, skal þad uppskera þa fullvarid er ordid, og jorden plægiast strax eftir, hun skal þa miliast edur risast med akurrisnum, og sast sidan eftir med vetrar-ruge, og rifist sædid vel nidur i jordena. Vorid eftir so fliott sudde og deigia er ur akrinum skal hann lausliga ysast edur risast med sterkre hrisu edur akurrisnum, ad engin skorpa nare ad setia sig þar ofan a, sem helst kemur a leir-jord og molld og hindrar miog kornsins fyrsta uppvoxt.

Vid plæging er sierdeilis athugaverdt ad jorden verde vel plægd, og valla, kann madur giora þar of mikid af, einkum i feitre edur leir-jord. Þvilikar jardarter eru miog þiettar

og saman-hangande og falla i storum kokkunn, sem miog hindrar frioffsemena, enn þvi oftast plægt verdur þvi lausare verdur jorden, og þai miriast edur skerast þær sterku grasrætur og márgfoldu sinai tagar sem ætid eru i hvilldre jord, enn mestar i nylendum.

Være þad nockurs stadar pleging kynne sparast, er þad i mogrum sandakre, edur i þeirre jord sem hofrum skal i sai; þvi Nattúru-vitringar segia ad þeirra rætur þigge helldur nockra þrickingu.

Oll su jord sem brukast skal til vorsædis, skal plægiast haustid adur, þott ekki se nylendur, einkum ef hun er feit edur leirug, sniorinn og frostid, sem þai kemur i opna jord, og liggur þar um veturinn, giora hana opna og meira, so bæde vor plægingin og kornvoxturinn falla mikid lettara. Sama er ad segia um þai jord er plægd verdur til vetrgar-rugs, sem ætid er said um haustid; hana munde vissuliga best ad plægia tvisvar undir utsædid; ella bruka

sömu adferd og þeir hafa i Norvege. Þar ganga tveir menn i reinina eftir plógmanninum med keppe edur barehle i hondunum, og slá sundur alla þá storu jardkekke sem uppvellta, og mola hina adra molldina so vel sem verdur. Med þvi mote verdur allur akurinn moladur yfir, sem hiálpar ægæta mikid ad korinid þvi audvélldara kann rifast edur milldast i jordena, og þad sídan vaxa fliotara upp.

Þesse ádferd helld eg miøg kæme til þarfa ef brukud være i voru fodurlande; enn þá skyllde ganga yfir akurinn og milia hann rett ádur enn sád være.

Eg leide grun ad hvort þad mune lukkast oss med fyrsta ad ganga allfara veg, edur hafa sömu ádferd og brukud er i gomlum Kornlondum. Ver hofum hráia og feita jord, hun verdur vanstillt i fyrstu, þar til hun er temprud ordin, og fær ad uppklekia sinn egin Korne, sem i henne hefur vaxid. Þá er og

þrau-

þrautinn unninn, þvi villde eg rada ad giord væri su fyrsta raun edur reynsla so viturlega ad engin yrde skuldin hia akurmanninum sem hingad til verid hefur, og leitast vid a imsa vegu ad siast kynne hvad best villde takast.

Skyllde eg segia mina meining, munde eg leggia til ad tekid være eitt litid stikke af akurjordenne sem plægd var um vorid, og borid þar a litid nautatad undir haust-plægingunna, moka þunt ur og plægia þad so saman vid jordena med þad sama akurinn verdur plægdur annad sinn. Hitt annad stikkid plægist utan aburd, og ligge so bæde vetrinn yfir. Vorid eftir adur sad verdur, skulu bæde stikkinn þad tadda og otadda plægiast vel og molast vel.

Þad er eigi gangligt ad mikian kome lengra nidur i jordena enn 4 edur 5 þumlunga, og skal plogurinn stillast þar eftir.

Nu skiftir madur þeim partinum sem taddur var haustid fyrir, og sáer i þann eina helming bygge, og þann annan hofrum. Hinum er eigi var taddur mætte og skifta i þriat parta, og sa sidan i þann eina bygge, þann annann hofrum, hinn þridia Hampi, edur Hampsæde.

Hampur segia þeir gomlu vaxi best i nylendum, og hann hefur komid upp og nad sinum fulla vexte a Islande med engre edur litille fyrir hofn, sem sed hefe. Hampur-byr jordina vel undir allskonar kornvoxt, og a þennann hatt var audvelldt ad sia hvorn veg hvor sædis-art þrifast villdi ad hauste komande verdur kornid uppskorid, enn hampurinn rifinn upp. Hvor sem hefde efne til giorde vel ad kaupa nockud af tobaks-fræe edur sæde, og sa þvi i litinn akurpart: su urt dregur til sin alla illsku-vessa ur jordenne hreinsar hana og giorer hæfa til kornvaxtar. Þa adferd bru-

bruka marger vid o-tempraða jörd, og sá þar strax korne i arid eftir.

Nu er tekinn sá partur akursins sem taddur var haustid fyrir, og sie enn borid á litid, þunt mokad aburdinum, og plægdur vel saman vid þá adra jördena: i sama mata skúlu og hin stikkinn er ekki var aborid plægiast og molast, og sáist öll med vetrar-ruge. Kome nu gódur vetur uppá, (þo sniomikill see skadar ekki ef vedurattin er eigi stöpul med umskiftande blaku frostum og regne) og gott sumar eftir, þarf eigi ad ugga kornvöxtinn.

Her skal þá leggiast merke til, i hvoriu stikkinu kornid stendur best, ad færa ser til nota: hvar staugin vex hár og digur med storum oxum og litlum edur engum kiarna i, er teikn til offeitrar jardar, sú jörd skal eigi tediast, enn plægiast og molast vel, og sá þar i ruge, og gefur hun vissuliga go-

dann

dann awoxt arid eftir, þvi þar er hün temprud ordin.

Er stongin ekki miog hár, og axinn i mata stór, med nockrum kiarna i, þo eigi se fullvaxinn. Ef vedurattan hefur þar eigi skulld i, so er likast of=mogur jord, hun skyllde þar tediast vel og plægiast og sáist med vetrár-ruge, og er ad vænta gods wvaxtar. Ætid skal madur hafa eitt stikke osád, sem plægist um haustid, og sáist med bygge, hofrum bland korne edur Haupi vorid eftir, þo so þad verde velplægt adur.

Ny kynne sá margur vera, sem ekki er megnugur ad kaupa plog og onnur reidsfære til akur-yrkiu sem brukud eru i framande londum; enn hefde þo vilia ad gagna fødur-landinu: þeim være allt so gott ad bruka annann máta, sem betre er fyrir vidvæninga, og gefur vissare afgroda, þo laungsamur se.

Þar akuriun er afskorinn lagdur og deildur, sem adur er getid, i stadin fyrir ad plægia jordena, skal hana uppgrafa og vellta um med pæl edur þunnum jarnspada.

Her skal þar taka til at endanum, og stinga so hnausalagid yfir þverann akurinn, (og þvi munde betra ad leggia hann miofann) hid fyrsta lagid mar upptakast af flaginu, so þeir adrer hnausarner vellte þvi audvelldara at gras-rotina, sem ætid skal vera nidur, ad hun þvi lettara fune; her til skylldu gioraft letter pæ̈lar med þunnum, og breidum blodum ad erfidid falle þvi lettara. Þar upp er stungid so mikid land, sem ætett er, og madur hæglega kann yfir koma: vilie akurmadurinn sa þar strax i bygge, hofrum edur bland-korne (þvi su jord er; so verdur erfidud, held eg megi saust þad fyrsta vor med hafra, edur byggi) skal akurinn liggia nockra

daga

daga til ad riuka edur gusa. Þaa molldin tekur ad þorna og siga, munde betra ad billta henne vel um med paalnum aa ny; þad jafnar jørdena, og melur þaa storu molldar og leir-hnausa: þaa hun hefur enn stadid tvo edur þriaa daga ad þorna litid (sem fliott skedur ef þurrvidre ganga) skal heile akurinn beriast upp med klaarum og bareslum, og skara molldenne fraa til beggia sida aa akrinum: ef vel være, skyllde hun molast nær so smaatt sem kaalgardamolld edur vallar-tad, og allar taagar og rætur sem i jordenne eru, vandliga burttakast. Med þad sama skal akurinn skapast so, ad hann verdi litid upporpinn i midiunne, og lægre vid sidurnar, sem aadur er sagt.

Þaa molldin er barin, og allt þann veg giort, sem nu er sagt, skal ysa nockud botninn edur þaa fostu molldina med vel sterkre vallar-hrisu, saa þar sidann i korninu, og

nusa

ausa so edur breida med hægd þar ofan yfir alla þá molld, sem upp var barinn, þo so hun verde eigi hærre enn þriggia fingra yfir korninu, og rifa sidan lausliga molldina ofan med hrisunne ad jafna akurinn. Somu adferd skal og bruka vid rugakurinn, edur þann sem sæd verdur i rugie, haustid eftir, hvort sem til þess verdur vorsæd-jord brukud, edur önnur ny, sem alldri hefur verid sæd i.

Þess er þo at gæta vid vetrar-sæde, ad þad mæ allteid koma fingurs dypra i jordena enn vor-sædid. Her kann madur og reyna alla þá ædferd, sem umm er talad her ad framman i Capit.

Efe madur umm friosseme jardarennar, skal berast tad-rein endi-langs vid akurjardarinn og beria saman vid molldina, edur þá ser i láge, og ausast þuiit yfir

kornid

kornid, og breida so med adgætne molldena ofan yfir.

Nu kann hvør ad bruka af adurskrifudu, þad honum syniſt beſt fallid; enn eg kann ſegia med viſſu, ad ſa ſidſte matinn ad pæla og beria molldina gefur allar tider hinn viſſaſta avoxt, einkum medan kornid er ojardvant, jafnvel þo langſamligur ſe og erfidismikill.

Færeyingar hafa mióg lika adferd þeſſare: þeir ſtinga jordena upp med þunnum paal edur jarn-ſpada, hafa ætid mikin vid hondena a akrinum, taka þar litid af, og kaſta i hvørn hnaus jafn-odt og ſtunginn er, og pæla þad ſaman: þa heile akurinn er þann-veg tilbuinn, verdur korninu i hann ſaad, og rifid nidur med hrifu: þeſſe mate er enn-nu langſamare; allt fyrir þad faa þeir meira korn eftir tiltolu, enn nockrar

nockrar adrar þioder a Nordurlondum. Þeim eru vissar i medal-are 20 tunnur korns eftir eina tunnu ut-sædis, enn þar i mot i Sellande faust skialldann fleire enn fiorar, fimm og hædst sex. Þetta vil eg eigi tileinka þeirra jardgædum, hun er þar ekki mikid betre enn annar-stadar, en ræktunarmatinn er mest orsok þar i.

# XI. Cap.

## Hvilikt korn best sie til utsædis, med fleira ødru, sem þar ad hnigur.

Þar uum salla miøg olika meiningar, hvort betra sie til utsædis framande korn edur heima aflad, og marger hafa þann vana, ad kaupa allt sitt utsæde fra framande stodum.

Hvort þad nu er eigi annad, enn ein rong gomul inngroinn meining, sem jafnvel hefur rotfest sig hia skinsømum akurmonnum edur þar er nockud um, læt eg standa vid sitt verd: eg neita ekki (þo sumer sege þar i mote) ad þegar misvoxtur er edur kornid rirt ordid og kiarnlitid,

sem

sem tídast orsakast af ofriosamre jörd, einkum være þar i brandur edur kolar, sem skadar mióg utsædid, og mest hveite, ad betra munde ad hætta ekki ad sá þvíliku korne, og kaupa helldur frá ódrum stódum, hvar þad være ad fá gott, rist og kiarnafullt; enn hvor sem hefur góda og frióssama jörd, og strid-vaxid korn i, sem er hreint og i' allann máta fri fyrir allslags skada, kann eg ekki siá, ad nockur ummbreiting kunne þar hid minsta ad gagna, já! miklu framar skada, og þad mun eigi audvelldt ad bevísa.

Eg hefe talad vid skinsama landmenn, sem segia, þad sie skade tómur ad skifta um korn, þegar þad heimaaflada er gott. Sumer ganga lengra her i, og segia, þo misvoxtur verde nockur og kornid se eigi so rist edur kiarnafullt, sem i gódu áre, skule madur helldur bruka sitt egid korn, enn hætta á þad framande, einkum þad sem er frá heitare löndum, þad korn

er avallt halldid fyrir þad besta, sem er ad sia liosblautt edur blá-grautt á skelina, þad er sionlegast á rugė; item þad liosbleika edur bleikleita, og i sama máta hid besta til utsædis, enn þad brunleita edur sotrauda er sidur, og þvi er ad varast ad sá i deiga iørd, þvi þesse oheill orsakast i fyrstunne af deigiu. Miog er athugaverdt, þad korn alleina brukist til utsædis, sem vaxid er á feitum og friossomum akre, og sie sialft feitt, fullvaxid og vel kiarnfullt. Jafnþurrt korn af jøfnu máte ef veigid er, reynist hid þyngsta þad besta, kiarn-rikast og kraftamest til ad flyta korn-vextinum. Hyggner landmenn reyna þad korn soleidis em bruka skal til utsædis: þeir taka kornbindininn, og slá þeim vid stock, staf edur hvad annad hardt, so hrinia þau korninn af, sem vel eru fullvaxiun, hin sem midur eru, verda til baka á støngunum. Utsædid kann og reynast med þvi møte, ad taka þar nockud af, og sá þvi i molld-kistur edur stampa, sem molld er i, af þeirre

somu

omu jord edur samslags og þad skal saast i 14 dogum fyrir þá rettu sæde-tid; skiote þad þa þikkum og vokva-miklum lausum edur spirum, og eru ræturnar lodnar, med morgum smá aungum, má þvi ohætt sá, þo ekki of þickt.

Sumer færa sitt korn inn á hlodu-golsid, og kasta þvi á ny; þad sem fellur i midid er þad besta. Þad lettasta fellur lengst fram, enn hitt sem nærst fellur manninum, er sialldan hreint.

Þad korn, sem brukast skal til utsædis, má ekki hafa legid i storum dyngium, ad hitnad hafe i þvi, sem hætt er, þá mikid safn verdur tilfært á skipum: eigi helldur i raka edur þvilikum husum, sem deigia er i. Þad skal liggia i þurrum stad i þunnre breidu, og hrærist sifelldt um, einkum er þad nockud sem tolu neme, má þad eigi geimast i luktu kere, á litlu skadar þad ekki.

Bland=korn edur blendings=korn er ein art af kornsæde, og brukast miog i Svibiod og Norvege; þad er miog liust til ad vaxa, er annægt med jord i medal-lage goda og litla fyrirhöfn. Hvor sem villde reyna ad sa þvi her i vorn fodur-lande, munde raunen sem er sa olygnaste, vottur visa þad prisist vel, og gæfe godann avoxt.

Þad Islendska korn, sem vex i Skap-tafells=syslu austur, skyllde frammar odru taka, og reina ad sa þvi i sandmikla-jord, sem likust være þeirre þad vex i, þo nockud feitare: er þad eftirstodvar af gomlu saadkorne, þarf enginn þeinkia, þad mis-heppnist.

Þad Norska Snare=korn (hradvaxta-korn) skyllde fyrst og fremst af ollum korn-ortum, brukast til utsædis: þad korn nær alltso fullkomnum, ef eigi betre vexte i Is-

lande,

lande, enn þad mockurn tima hefur i Norvegę.

Sumer segia moguligt ad faa snemvaxid korn, aa fylgiande haatt:

Þad korn, sem brukast skal þar til, maa uppskerast af akrinum, medan kornid stendur i raudu axe, edur medann þad er raudt ad lidt, og ekki ordid alldeilis fullvaxid, þaa lysist þad jafnan, og verdur bleikara. Hitt-sem hast verdur til bu-nytia, stande til þeirrar rettu uppskeru-tidar. Næsta aar eftir sie þessu snemtekna korne sáid aa sidvanaligum tima, og uppskerist enn sem þad fyrra, þaa axinn eru raud ordinn. Þessu skal frammfara i þriu edur fiogur aar, og aa sagdann haatt skule madur faa hradvaxta korn, rist og kiarna-fullt, sem hvort annad. Her skulu þaa adgætast oll þau kennemerke, þad fyrsta hafde, nær þad var uppskorid, ad þeim verde fylgt, vid þess annars, þridia og fiorda uppskeru. Eg

 sege,

sege, þad hvorke satt ne logid; hvorke hefe eg þad sed ne talad vid þann nockurn, sem þad hefur reynt: Raunin mun.de hinn olyg= naste vottur, og ef lukkast villde, er mikid aunnid; enn akurinn mætte þa ekkert van= ta þad, sem godu sadlande til=hlider.

Ad bleyta utsædid i sallt= kalk= edur salltpetur=vatne, edur seyda=log af odru sam= slags korne, og leggia utsædid þar i, og lata bleytast nockra daga, einn edur tvo, sem brukad er i Utlondum, stendur hvor= ium i sialfs=vallde ad reyna. Þad lukkast þo ostast vel þa giort er, enn jorden maa þa vera feit, god og friossom.



# XII. Cap.

## Um korn-sædid og sæde-tidena.

Auk þeirra sæd-arta, um er talad i fyrirfarande Capitula, verda þessar efterfylgiande liufastar ad vaxa i Islande, sem eru Rug-blendingur, Bygg og Havrar', hvort sæd fyrir sig. Vor-rug, Hør og Hampur, og s. s. v. Hvor sem reyna villde, ad sá þessum og rækta akurinn sem synt er her ad framman, i bæklinginum edur med ødrum skinsamlegum adburdum, skal vera viss um hans erfide verdur ekki forgefins, og þad er gott og mikid unnid; enn Vetrar-rug og einkum Vetrar-hveite og himinkorn eru vanstillter avexter, og mislukkast oftar jafnvel i þeim godu Korn-londum;

löndum; þvi væru enginn undur, þo þeir villdu eigi med fyrsta rett vel heppnast her i voru födurlande, medan jorden er otemprud, og akuryrkian i sinum hrawa ungdome.

Hveite er sat agætaste avoxtur af allslags kornsæde, ver hosum a Nordurlondum, bæde er þad budriugara og betra til fædis, abatameira og avaxtarsamara, enn hvort annad korn. Med ollu þessu er þad miog vanstillt og mislukkast tidum, og þoler verr enn flest annad sæde ostoduga vedurattu, og hvad annad skadlegt tilfelle: þad er tvennslags.

Vetrar-hveite, sem sad er a haustinn, og liggur i jordenne veturinn yfir, enn uppskorid haustid eftir: og Vorhveite er sáist um vorid, og verdur uppskorid þad sama haust.

Allslags hveite skal hafa diupa og feita jord, eigi grynnre enn sex edur sio þumlunga, og sie sterk leir-blandin af náttúrunne til, edur akurmannsinns umhyggiu. Akurinn skal plœgiast edur molast a'gæta vel. Er akurinn vel taddur af feitre og friossamre jord, sem ræd er fyrirgiort, og hefur ánægar afhlaups- og deilngs-rennur, sem miog er athugande vid allt vetrarsæde, þarf eigi meir, enn hálf-tunnu utsæsædis i einnar tunnu land, so þunkt skal þvi sá.

Er nu akurlandid ekki so feitt, sem sagt er, þá litt þikkra, og má þá ætla 3 qvartél til tunnu landsins. Sædid skal jafnt og vel meljast nidur i jordena, eigi grynnra enn þriggia fingra, so skulu deilingsrennurnar giorast hreinar og diupar einkum til endanna, ad ekkert hindre vatns-rásina.

Vid hveite er hid sama ad merkia sem oll onnur kornsæde, ad utsædid sie vel-

full-

fullvaxid, þriflegt og kiarnfullt, og hafe vaxid i frioſſamre jordu. Þad er betra og ohættara fyrir brande, ſem oft ſkadar hveitid, ad ſaa helldur gomlu ſæde enn nyiu, þo eigi ofgomlu. Være þad aars edur tveggia, munde nægia.

Sumer ſegia, hveite vaxe betur a nockud ſidlendum akre: ſie þar nockud i, maa þad vera meint um vor- edur ſumar-hveitid; þvi allt vetrar-ſæde ſkal hafe hallenda jord, og ſie komid i jordena þrimſ vikum i hid minſta fyrir Michaelismeſſu.

Rug er einn agætur avoxtur, og maa reiknaſt nærſſt eftir hveitid vegna þeſs margviſligu nytſeme, þad er og tvennſlags, ſem hveitid, vetrar-rug og vor-rug:

Vetrar-rug maa ſaaſt i goda og feyta molld jord, ſem er laus og vel ſandblandinn 3 vikum fyrir Michaelismesmeſſu, og fyrre ef froſta-væntir, þad þriſſt og ſæmi-

liga

liga i leir-jörd molldblandenne, hvar þat adra er eigi ad sá, enn þá mai hun vel tediast med sauda-tade edur odrum vorinum aburde, akurinn i sama maata vel molast og plægiast, og sædid dyggiliga nidur moldast eigi minna enn þriggia fingra diupt. Utsædid skal vera kiarnfullt og gott i allann maata sem sagt er umm hveitid, og somu rœktar adferd, ad þvi undanteknu ad ruged elskar mest sandrika molld-jörd, hveitid þar i mot leirmikla, þo feita og goda.

Er kornid feitt og gott og varid i friofsamre jördu, saaer madur þrim qvartilum i tunnu-landit, sie akurinn þar med feitur, enn fullre tunu ef magur er. Hafe ruged skotid oflongum vetrarspirum, er betra þær verdi afslegnar.

Rug-blendingur edur blendings-rug, er einslags utsæde og brukast hellst i Sviariki. Þad eru þrir hluter rugs blandader med hinum fiorda af hveite, (er þeir kalla langhveite)

hveite) þetta hveite er hvitleitt, og hefur miog litlar agner, þrifst vel i leir-mikille molld-jord sem vel er rœktud, þai þad er alleina, sem allt annad hveite, enn er þad said med rugie blandad sem her segir, kann þad vara rett vel i feitre og diupre molld jord sandblandenne.

Her sœr madur rett ad siai sina auœgin i naattúrunnar undarlegu verkan; þvi so er sem hvort sœdid keppist vid annad i vextenum, og verdur mikid fyrr fullvaxid, enn ef hvort væri fyrir sig alleina said. Þad er gott til brauds, grautar, öls og allrar þeirrar brukunar sem menn hafa rug.

Allt vetrar-sœde skal hafa goda jord og hallenda, koma diupt nidur i jordena og fullkomnar rennur umm og i akrinum.

Vor-hveite skal saast i feita og leir-rika jord, a sama hætt sem vetrar hveitid, og skal bida med sœde-tidena so lenge sem verdur, þar

til

til ſionlegaſt er þau meſtu froſt-ſieu til enda. Akurinn ligge i hlie hvar ſolin naer vel ad ſkina. Þad ſkal lukkaſt beſt i nylendum edur hvildre jordu, og tedieſt akurinn med ſauda-tade edur odrum vormum aiburde, hvar menn vænta eigi offeitvar jardar. Folld-mikia ſterk leirbloniduð er hinn beſte aiburdur til allſlags hveite-akra, þad ſaiiſt ſo þikt ſem aidur er ſagt um vetrar-hveitid, og melieſt vel nidur ſo diupt ſem þad.

Vor-rug ſkal ſaiſt i þurrann feitann og ſandrikann molld-akur eins og vetrar-rugeð ſo ſnemma ſem verdur. Rug er þad ſem þoler kullda framar fleſtu odru korn-ſæde, ſaiiſt ſo þunnt ſem vetrar-rug, og kome eigi dypra i jordena.

Bygg er þad kornſæde, hvors voxtog þroſka engin þarf ad efa i voru fodurlan-de: þar af eru margar arter.

Í Noreg og Sviarike hafa þeir eins slags bygg, kallad starbygg, er miög linst til ad vaxa, og þoler aigæta vel allar lofts og vedurs umbreitingar. Þad skyllde framar ødru reyna i Íslande.

Þad Sexradada er þo mest i bruke, þad skal sarst i seita og vel ræktada molld-jørd sandbleudna so þunt sem rug, þad dreifir ser ut, og gefur oft margfalldann avoxt; þo kann madur segia um bygg, ad þad vex i velflestre jørdu, utan nær molldlausum sande, enn avaxtarins margfioldgun fer eftir jardar-ennar rækt og friossemi. Þess sæde-tid mun eigi verda fyrre hiá oss, enn um Hvitasunnu skeid, nema miog vorgott sie, þvi eigi vil eg rauda ad hætta þvi undir sterk nætur-frost. Þad þoler illa kullda; enn faae þad gott vedur uppá sig, þo seint verde sad, verdur þad undarliga fliott modid edur fullvaxid, ja! i friossomum akre, og falle gott vedur, er þad tidt ekki lengur enn tiu vikur i jordenne, og i Noreg. hvar þad vex i diupum dolum edur fiordum

um sem liggia mót sólu; og þad hefur hlie og solarennar sterka hita i godu are, þarf þad jafnvel ekki yfir 8 vikur til ad verda full-vaxid.

Himin korn er einslags bygg art og hefur þriar radir korna. Þad þyker vanstillt-ur avoxtur og mislukkast oft, ef þad fær eigi jord og vedurattu goda, og þar af mun koma, ad þad er so litid ydkad i Danmörk og Noręge: er þo hinn beste avoxtur til allslags bunytia, og nær so gott sem hveite, og þrifst, bel i sömu jord, annars vex þad best, ef akur-inn hefur þær þriar jard-arter, molld, leir og sand tilhlidiliga blandadar, liggur hátt er vel plægdur og mulinn feitur og vel ræktadur. Þad þoler illa-kullda, og mun þess sæde-tid eigi verda fyrr een sidst i Majo, og sidar ef frost ganga, og kann þad vel heppnast. Þ.tta korn er miög ervidt ad þreskia. Þvi skal sa hær so þikkt sem hveite einkum i feitan akur, ber tidt tolf-faldann avoxt.

Blandkorn edur blendingskorn, er ein sadarrt, brukast bæde i Norveg og Sviarike; pad er Bygg med Hafra samanblandad helmingur af hvoriu, er agætt til buskapar og gefur flest af ollu sæde. Pad er amægt med flesta sad-jord sem fatt edur nær ekkert annad sæde vex i; og po akurinn sie sidlendur. Best vex pad i hoflega feitre jordu, sem ræktud hefur verid. Po akurinn faie engann annann aburd, enn molldenne af dykiunum se kastad par inn a, og plægd saman vid, vex pad po rett vel. Akurinn plægist bæde haust og vor. Po pvi verde eigi sad rett snemma, skadar valla; pad kann audvelldt ad bida par til frost er ur loftinu. Pad parf eigi rett langa tid ad vaxa ad fullvaxid verde. Pad er gott til øls ad brugga og brenna brennevin af, item til grauta og vellinga og s. f. v.

Hafur er ein korn-art sem halldin er i minsta gillde bland allra ax-korna, er po einn gadur avoxtur. Pad er ein hans dygd: hann vex sæmiliga i nær allslags jordu, meira edur

minna

minna eftir sem jorden er frioffsom til: hann þrifst vel bæde i leir og sandjordu, hvar annad korn ekki kann vaxa, heimtar ekki helldur mikla plæging. Leir-jord gefur kortann hafra og kiarna fullann, sand-jord lengre, enn þikkre ax. Sa hvite er hinn beste, saaist sidst midt i Majo, ef ekki ganga sterk frost. Hann, gefur 5 til 6 falldann avoxt, þo jordenn sie i medallage, een meira ef god er. J Norege blanda menn honum med erta-miøle, mala og giora braud af, item med bygge edur rugimele, sem þa er ø̈gæta godur, bæde til brauds, grauta og vellinga: er annars miøgholl fæda.

Boghveiti er einn godur avoxtur og nytsamur i buskap, þad vex best i sendeinne jord, og vere eigi miøg grunn þo i medallage feit sie. Þad vex og i leir og molldu, enn i þeim stifa leirnum kemur þad eigi fram. Þad er miøg vanstillt sæde og þoler miøg illa kullda, saaist sidst i Majo i hæsenda og varma jord.

Þad ſkal ſaſt þunnt, annars bæler hvad annad og leggſt nidur. Boghveiti þoler hvorke vor-ne hauſt-kullda, enn ſkyllde annadtveggia vera, kann þad helldur urſtanda litid vor-froſt, enn frioſe blodinn umm hauſtinn, er ute med þad.

Hvor ſem hefde efne til ad ſaa þad Siberiſka boghveite til ad ſaa, var miog þarſſamligt, bæde þoler þad froſt og adra harda vedurautt, og geſur godann aavöxt.

Snare korn edur hradvaxta korn er ein korn-art ſem hellſt tidkaſt i Norege: i raunenne er þad ekki annad enn Hafri, ſem vaxinn er aa þeim ſtodum i landinu hvar hlie er og litill edur enginn kulldi-kann tilkoma, og þeir kolldu vindar ekki kunna ad blaaſa enn ſolinn med ſinum ſifellda hita og gegnum þreingiande krafte drifur þad ſo odum framm af jordenne, ad þad verdur nær ad forlaata ſina eginliga natturu, og verdur longu fyrre modid edur fullvaxid, enn þad annars er vant, og þeſs

nattu-

náttura er til, og. enn fyrr enn bygg, og til sídst gengur þad um of, so þad vex i einum haste, verdur so rirt og kiarn litid, ad þad kann eigi sáast aftur utan skada, so akurmadurinn blitur ad taka framande korn. Ef þetta korn verdur tekid, medan þad er gott og kiarn-fullt og sád á adra kalldare stade behelldur þad enn sinne náttúru um nockurn tima ad vaxa fliott, og verda hastarliga fullvaxid.

Þad sáist þikkt sem hafrar, er ánægt med i medallage goda jörd, enn þo vel lausa. Þad er oft ekki yfir 8 vikur i jordenne, og þad er þadkorn, sem brukast skyllde i Islande framar ollu odru, einkum nu medan landsfolkid er eigi fullnuma ordid i akuryrkiunne.

Þad er miög mikilsverdt, ad akurmadurinn vite þann retta máta, hvorn veg korninu skal sá i jordena. Of-þikkt sádkorn skadar á tvöfalldann hatt: madur ta-

þar þar vid meira utsæde enn þurfte, og fær minna aftur eftir tiltolu. Ofþunt er og skadligt. Medal-hofid er her naud-synligt sem i ollu odru.

Ollu stridu korne sem haust edur vetrar-sæde, himin-korne, vor-hveite, vor-ruge og s. fr. v. sie feitt og kiarngott, hafe varid a friossomum akre, og skule sa i feita jord, skal sa heil þunnt, og eigi meir enn halfs-tunnu edur þrem qvartilum, i tunnulandid. Nær hid sama er þad um Blandkorn, og Rug-blending: hafra og ollu mogru korne þikkra.

Þad er gamalla manna mal, ad þar se rett sad ef sio korn liggia i einu mannsspore, edur so storu plautse, og fimm i hestsporinu, enn eg helld þad of þikkt sad i feita og friof sama jord.

Mai

Maatann edur handgripinn ad sa korninu, lærer madur betur af sion enn af heyrn; hvo vil eg giöra her til so mikid sem eg megna.

Ef miklu korne skal saa, hefur saadmadurinn korn-sekkinn undir hinne vinstre hende, sem bundinn er upp um oxlena. Þar ur tekur hann einn hnefa-korns eftir annan, og kastar framm aa akurinn soleidis, ad korndreifin ur hendenne falle sem i haalfhring framm og til beggia sida: vid hvort utkast hann kastar korninu gengur hann eitt spor i framm. Þeim eigi eru fullnuma er betra ad taka litid upp i hendenne, og kasta litid af þvi hvort sinn. Miog er adgætande ad kornid falli jafnt yfir allt, og ekki i flekke, þvi þad er skadlegt.

Þad mun eigi audvelldt ad tilsetia vissa sæde-tid i Islande, einkum med vorsæde; aa haustsæde er hun viss, hitt kemur mest uppaa vedur-aattina, kornid og jordena, og þad maa

akurmadurinn adgæta. Þad er ad sönnu betra fyrir allt vor sæde, ad þad kome snemma i jordena, þa verdur þad og fyrr fullvaxid, enn frost og kulldar hindra þad oft, og þa er betra ad bida nockud.

Sidst i Majo eru hiá oss i medalære þau mestu frost ute, og þa ma sa flestu sæde, nema haldt gange; þad er og tidt so vor gort, ad madur kynne audvelldt sa þrem vikum fyrir Hvita-sunnu, einkum vorrugie og ödru sæde, sem nockurn kullda þoler, ef sad er i halenda molld edur sandjord, sem fyrst skal saast af allre jord, þarnæst leir-jord, og sidst fidlend edur deig jord. Madur skyllde og reyna ad sa sumu fyrr, enn sumu sidar.

Allt vetrar-sæde skal koma diupt i jordena, þriggia fingra og jafnvel þar yfir, nema stifur leir se sem sad er i, munde nægia þad kæme tveggia fingra diupt.

Flest

Flest vor-sæde sem sagt er i sand og molld, må koma nær þriggia fingra diupt, enn i stifann leir eigi stort yfir fingurs. Sædid skal moldast jafnt nidur, so ekkert verde ofanå: þad verdur avallt af fuglunum uppetid.

Þad skal og vera ein viss regla fer-hvorium akur-manne, ad hafa litinn akur enn rækta vel. Hafe eg litinn, akur, þarf eg litid utsæde, og erfide mogulegt, hafe eg marga illa ræktada, þarf ek mikid utsæde og mikid erfide, enn sæ þo eigi meire eftirtekiu, enn eftir þann litla sem godur er.

I Danmorku så bændur akra sina eitt, tvo edur þriu år i rod, og låta þå so hvila i mille so lenge edur lengur, enn þess þarf eigi ef jorden er rodd vel hvort år, kann hun og såst hvort år.



# XIII. Cap.

## Um Up=skeru verkun og heim=færslu kornsins, med fleira sem þar ad hnigur.

Þa kornid er full=vaxid skal þad uppskera, og er þa ei ad forsoma tidena. a flestu axkorni er uppskeru=timinn i Augusti manade, seint edur snemma; þo er þad miøg komid undir vorgædum og vedurattufare, og hvad snemma korninu hefur sad verid, so valla kann þad nokkud vist ad alyktast. Arid 1770 sa eg bygg i Sellande, sem sad var fam døgum fyrir og eftir Trinitatis sunnudag, stod fullvaxid dag 12ta Augusti: telie madur her eftir, sest, þad hefur

hefur eigi verid yfir 9 vikur i jordinne og gras vex þo hradara i Islande, enn allvida annarstadar.

Þad er merke a korninu, þegar þad er nærre komid sinum fulla vexte, rodna oxinn og verda raud um hrid þesse raude litur varir eigi lengi, enn umbreitist snart i annann liosare, inn til axinn verde liosraud, og sidast gul-leit, og þa er kornid fullvaxid, kiarninn sialfur verdur þa liosblaar edur blagrar a skelina, sem sionlegast er a ruge og hveite. Þad korn sem vex i deiglende, verdur giarnan sotraudt edur raudbrunt. Sumer taka axinn af stongenne og gnia i hende ser, er kornid laust i husinu, og fellur audvellt burtu, item er þad hardt vndir tonnenne, og brake edur springe ef reynt verdur, er þad vel fullvaxid. Þad er merke hafrans þa hann lysist, so þad mesta af honum er liost edur hvitleitt ordid, ma hann uppskera. Sumer reyna kornid so, ad sla vid stongenne, edur hrista

hana

hana hart, falle þa kornid af, hefur þad nær oflengi stadid.

J Sellande og allvida utanlands er kornid afsleigid med liaunu, nær sem hey a Islande: þad alleina munar, ad kornnugs, inn er alltid sleginn ur grasinu so axid falle ut, enn oll straumn inn til skairans; þar af er lag og kunnatta uppskeriu mønnsins helst audsen, ad axinn falle sem jafnast, og þar ridur mikid a, þvi hægra er sidan ad binda og þreskia og allt ad ad-vinna: Strax er þa folk til reidu sem draga saman mugann, og binda kornid upp i stor hneppi, edur bindene sem þeir kalla Neeger. Bondinn eru oftast af løngu heye samansnuinn, edur af kornsins egin halmi: Bundid er litt nær korninu en um stongina midia. Eigi skadar ef þurkar ganga, þo kornid ligge flatt nokkra daga.

Menn hillast til so mikid sem mogu legt re, ad uppskera kornid i þurru vedre, enn

tidt

tidt knyr naudin ad gripa þar til i regne og ovedrættu, og einkum med þad sidla er uppskorid, og verda menn þá eiga undir hættu ad læta þad liggia undir regne þriær edur fiorar vikur. Se Rug, Bygg edur Hveiti-uppskorid i þurru vedre, mæ þad strax heimfæra, einkum nemi þad litlu, og se hreint og graslitid; þar i mot skal hafrinn liggia nokkud og þorna, þvi hans hælmur er kraftameire. Vex mikid gras i korninu, skal þad eigi heim færa, fyrr enn grasid er nokkurnvegin þurt ordid, annars er þvi hætt vid ad brenna, edur migla, einkum se þad safnmikid. J vot-vidrum er betra ad binda kornid strax upp, og setia þad i røk. Gamga þurkar, mæ þad giarna liggia nokkud og blæsa i mug-unum, ædur þad er uppbundid og heim-fært. Þeir, sem bruka þann umgangs-mæta ad slæ kornid med liæum, meiga væn-ta þess vist, ad þar spillist mikid korn, einkum seu slættumennerner hirdulauser og olag-virker.

Su

Su adferd, sem brukud er i Norvegi og allvida i Sviarike, ad skera Kornid upp med sigdum edur handskierum virdist mer betre, þo nockud se seinleg; adferdenn er miøg lik þeirre, sem brukast i Skaftafells-syslu med þad Islendska korn, og skedur a fylgiande hatt: Uppskeru-madurinn tekur þeirre vinstre hende um steingurnar fyrir nedan axinn og sker þær af med þeirre hægre nidur vid jordena. Her er þa ad athuga ad axinn ligge so nærri og jafnt saman sem verdur. Jafnodt og upp er skorid, leggur madurinn hvort handkneppi hia ser a akurinn ut af fyrir sig, og nockur strá yfir, i kross løgd af þess egin. Strax er þa annad folk til reidu (sem oftast eru børn og ungmenne) og binda kneppinn med adursøgdum strá-um. Hvort bindene er eigi stærra enn so, ad fullvaxta madur gete nær spannad þar yfir med bædum hondunum. Einn fulltida karl edur kvennpersona (þvi bæde uppskera þar karlar og konur) kunna lett uppskera a dege

einn ferhyrndann akur-part, sem er 16 fadmar i hvort horn, og meira ef hrad-virk eru. Vaninn gefur her i listena, sem i flestu ødru. Þesse sinna bindene taka þeir og setia saman, 4 og 4 her og hvar um akurinn, axinn snua upp, enn endarner nidur', og standa nokkud so ut ad nedan, enn axinu er so hofliga saman þrist. Þetta sinna kornsæti er kallad Røk, og stendur kornid þar i nokkra daga og blæs, þar til fære gefst ad flytia þad i hus. Sumer hafa rokinn mikid stærre, og setia saman 10 bindene, eitt innani, og 8 utan um a allar sidur, ad ofan eru þaug vel saman þett, enn nokkud so fra ser ad nedan, ofan a þessi nu verdur sett þad tiunda, sem stærst er, og kallast hattur, so ad axid a hattium hyllie ax rakarennar. Adur hatturinn er settur a rokena, tekur madurinn hondenne midt inn i midlum axanna, og spennir þaug ut a allar sidur, so þau taki vel ut og ofan yfir ax rakarinnar, og setur hann so ofan a.

Nu

Nu tekur madur þau ytstu strainn allt um kring hattinn: af þeim endanum, sem upp snyr, med þeirre hægre hendenne, og dregur þau lengra upp; togar þau sidann nidur allt umkring ad þaug hylie bæde bandid og axid a hattinum; enn hatt-endana sem uppstanda, snyr madurinn samman med þeirre vinstre hendenne: se þetta vel giort, ver þad regne og ovedre, so furdanlega ad kornid kan standa margar vikur a akrinum, og vera aldeilis oskemt i mesta hreggi enn blausa þo og þorna. I sterkum votvidrum, bruka Nordmenn staur edur stiaka, 4 edur 5 alna hafann, sem þeir setia nidur i jordena, og binda korn-bindininn alla vega þar utan umm, hart og laugt, og lata axinn hanga nidur: A staurnum blæs kornid augæta vel, og verst i sama mata fyrir regne. Sumstadar i Norvegi eru brukadir hiallar til ad þurka kornid, ei oliker vorum fiski-hiallum: þessa hialla reisa þeir a akrinum ute med tron-um, ausum og raum, og þar i eru heingd korn-

kornbindininn, sem blasa þar og þorna a=gæta vel. Hiallurinn er af timbre med sto=lum yfir til hlifdar fyrir regni. Kornid er heingt i rader þar inni eftir raunum, og er bil mille hvorrar radar, so blasturinn nae þvi betur ad þreingia i gegnum. Þetta er þarfligur mate, hvar vidur er nogur, enn þar sem hann skorter, mun þad verda erfidt.

Eingum vil eg rada ad binda korn a hestum, edur færa þad inn a sama hatt sem hey er heimfært, þa munde ær'd spillast, einkum være kornid vel fullvarid: heysledar mundu bester ad aka heim bæde korne og heye, og þa hafa forfedur vorer brukad: sledinn ætte vera med hafum kal=kum og vel þéttur i botninn, grindur edur uppstandarar skyldu ganga upp med kal=kunum, sem faster stædu i botninum; bæde mættu kalkarner og þessar grindur edur upp=standarar, liggia nokkud ut ad ofan, Ad

hladid yrde þvi meira þar a. Þa kornid er heimfært verdur þad insett i hloduna.

Kornhlódur eru eftir þvi sem hvor hefur fong til og efne þær ad byggia; flester hafa þær sæmiliga laugar og rismiklar, enn eigi miog hafar undir bita, og eru dyrnar avallt a hlideune. Yfir bitana eru lagder raftar heil naid, og þar ofan a er hladid korninu allt upp undir mænirinn, þo so-hvort sædeslag ligge fyrir sig. Midt eftir endilongu husinu gengur balkur, sem nær allt ad stofnuin husins; þad innra plats vid vegginn, er hladid upp af korne, enn þad nær er dyrunum er audt stafna i midlum, og brukast til ad kasta þar a korninu þa þreskt er, þad heitir Lo edur Læfi. Gluggar eru a badum endum hlødunnar, og i sama mata a hlidunum, sem opner standa þa vindur er, ad blasturinn leiki um kornid. Se leir eigi ad fa, edur menn kunne eigi leggia golf þar af, skal Læsa-golfid vera af fiolum, og halldist so

hreint

hreint sem verdur. Nu tekur madr bindinginn sem þreskiast skulu, leysir af bandid, og breider þau litt ut a golfinu. Oftast þreskia tveir saman, og stundum fleire, hvar mann-afle er þar til, hvar hann ekki er, þreskir einn. Pleigill heitir verkfærid sem þreskt er med edur slegid kornid af stongenne, og er eigi olikur svipu, þo af tre, þad skaftid sem madurinn helldur um, er miog likt svipuskafte, her um tvær alner ad leingd, og gillt sem klaru-skaft framan a endanum sem fra manninum vender, er holkur af jarne med sterkum keing, sem gengur upp i skaftid og stendur þar fastur. a mote þessu kemur annad tre litt gilldara, sem eins er langt og þad halldid er um; jarn holkur er og a þeim endanum sem bundinn verdur til pleigil-skaftsins, og vel fastur keingu i; bæde keflinn eru af eik, og bindast saman med sterkre ol. Þa tveir þreskia standa þeir hvor i mot odrum og hafa kornid sem þreskiast skal i millum sin, og sla þar i a vixl, og haga so ad hoggid kome sem oftast af flotu keflinu; af þessum sifelldu hog

gum lemst kornid af storigenne, og fellur nidur i gegnum halminn til botnsins: þetta gengur so lengi, inn til ekkert korn sest eftir a stráunum, sídan er tekinn halmurinn og hristur vel, bundinn saman og honum hladid a hentugann stad, til ad gefa hann fenadinum um veturinn (kyr eta hann best). Nu verdur korninu sem af var barid sópad saman med vende so vel sem verdur, og agner og kornhúsinn sem ofanað verda, burtvinsud; enn kornid sem þyngra er, leitar til botnsins. Þa so er komid tekur madur skoflu i hönd (her til kann audvelldt ad brúkast þunn og bladstor reka) tekur þar nokkud a ur kornbingnum og kastar þvi endilangs eftir lasa-golfinu, þa fiuka agner og fis burtu, enn kornid sem þyngra er fellur nidur a golfid. Virdist kornid eigi full-hreint ordid vid fyrsta ut-kast, er þvi sópad saman og kastad a ny.

So skal tilstilla ef mogulegter, ad blastur se a þa kastad er: þess lettara

fellur

fellur verkid, og þvi hreinna verdur kornid, sem vindurinn er stridare i hlodunne. Þa kornid er hreint ordid, er þar eigi meira vidgiort, enn þad verdur hirdt i ilate sem adrar byrgdir, og malad so til fædis. Hvar eigi eru vatns-edur vedur-mylnur, brúka mennhandkvarner.

I Norvegi bruka þeir a sumum stodum salld edur sigte til ad hreinsa korned i: þad er giort sem kista edur stockur ferkantadur, med gotum a botninum, sem korninn gete nidur um gengid, og stendur a fiorum fotum hæsum; þar i er latid kornid, og hrært so i; þa fellur kornid nidur i gegnum, enn agner og kiarna-husinn verda eftir i salldinu, enn mod og milsna fiuka burtu.

Sumer hreinsa korned i troge, sem skedur þann veg: ad þeir vinsa þad edur vifta so lengi, þar til þad er hreint ordid, og smælke og fis burtrokinn.

Nu skedur þad oft, og jafnvel i godum kornlondum, þa misvoxtur fellur, ad kornid verdur eigi modid edur fullvaxid, enn einkum i þeim nordlægu, og være eigi olikt ad ske kinni i Islande, hellst medan menn hefdu eigi korn landvant. Þesse oheill skadar nær sem ekki matgædinn, og þad er allgott atu, þo eigi se fullvaxid; enn skadinn er mestur þar i, ad nær er omogulegt þad ad þreskia, edur na þvi af stongenne, so fast er þad þar a, og er hin stærsta verkatof; ymsar þioder hafa varid stærsta omake ad finna medal her i mot.

Sviar byggia þilhus vid enda a hlodunne, sem vel eru þett, ad hitinn ekki leggi ut, og hafa þar i stora ofna, sem þeir kinda vel sterkt, so af þeim sterka hita sem verdur i husinu þornar kornid og breiskist, so laust verdur a straunu. Upp og nidur ihusinu eru hillur edur lang-raftar,

hvar að þeir leggia kornbindininn medan kindt er i ofninum, og taka þau sidan nidur þá þurr og breiskt eru, og kasta inn i hloduna til ad þreskiast; þá hrinur kornid af med litlu omake.

I Færeyium striuka þeir med hendenne axinn af stongenne, koma þeim i netpoka, og heingia so nær edur yfir elldinn, þar til breiskt eru ordinn og þreskia so edur beria kornid ur hisminu, vinsa so i troge, og mala sidan á hand-kvorn; enn þesse mate er bæde erfidis-mikill og langsamur.

Eg helld betra munde ad leggia balka edur langbekki med rimum allt um kring i husinu, þo eigi so nærre veggiunum, ad skade af hlitist, og leggia þar á kornbindininn, og kinda so hægt undir: balkarner skylldu standa gott bil frá golfinu. Þá kornid være þurt ordid, skyldi þad aftakast, og þreskiast sem annad korn, og munde þad audvellt.

Kornid mætte þurkast med mestu athigle ad þad ekki misbakadist edur kviknade þar i, Til elldsneytis kynne madur bruka hœlminn, af þvi korne sem aflast hafde ærid fyrir, være hann þurkadur og geimdur. Husinn skyldu vera rumgod, med gluggum edur reykhæfum a mœnirnum.

# Appendix

edur

# Vidbæter Bæklingsins

um

## Lin- og Hamp-afla.

Hörinn er su urt, sem þeim utlendu bændum heppnadist ad næde sinum fulla þroska a Islande. Hann hefur varid bæde a Ökrum i Skagafirde og vidar annarstadar, so audsært er hve liust hann munde þroast, ef skynsamer landmenn ættu þar hlutt i.

Lin

Lin og Hampur eru nær þeir aa-bata mestu avexter af øllum þeim ver høf-um a nordurløndum: þau betala sex sin-num omakid þa vel tekst, og eingin þarf ad efa þeirra luckulega vidgang i voru fø-durlande; og hvad munde oss annad naud-synlegra til klædnadar i þeim stora ullar-skorti, og eigi minna til fiskiveida.

Miøg eru þar ymsar søgur um hvilik jord. best se til linafla: þad er ga-malla manna-mail ad hør vaxe best i Nylendum, edur þeim akri, sem lengi hefur hvilt, enn eigi so gott i þeim adur hefur saadur ve-rid; enn rauninn hefur lært, ad þad er a ongvum røkum bygt. Lin vex i all-slags jordu, ef god er og rett handtierud; þo er mismunur, hvor jordin hæfileguft er af naatturunne til urtarinnar friofgunar.

Þessar 10 greiner vil eg raada ad athugist vid lin-yrkiuna:

1. Jardgædinn og hennar nattura til ad
bera þai urt.
2. Akurlagid, edur hvernig akurinn skal
leggiast.
3. Hvornveg hun skal plægiast og erfivast.
4. Ræktunarmatinn, og hvilikur aburdur
bestur se til linakurs.
5. Sædid og Sæditidinn.
6. Matinn ad sai.
7. Nær og hvornig hann skal upptakast af
jordenne.
8. Hvernveg hann skal bleitast.
9. Hvornig purkast og hreinsast. Og
10. Hvornig madur skal fai gott fræ edur
horsæde.

Eg hefe sagt nylendur væru eigi su besta jord til linaska, og eg helld fast vid þai meining, javnvel þo jorden være annars feit og god; orsøkin liggur þar i: Lin er blautur og miog veiklegur avoxtur, hans rætur hafa ongvann styrk ad þreingiai gegnumm eina þofna og stifa jord, og festa

sig

sig þar i: Su jörd, sem lengi hefur legid i hvilu, edur er aldeilis ny, og eigi hefur fyrre plægd verid, er seig, stif og þofin, og hennar smau partar liggia þett og fast saman; þvi er audsært ad þessar kraftalitlu rætur eiga miog ordugt ad bora sig þar i gegnum, festa sig þar i, og nai þeim retta friofgunar vökva, so mai þai vöxturinn stansa, urtinn visna, edur nai eigi meir enn sinum hailfa vexte, og verdur hun so mio og audvirdileg. Þar i mot su jörd, sem aidur hefur said og plægd verid, er hin besta fyrir hörinn, hafi akurinn þau rettu jardgæde; þo skifter miklu hvilikann aavöxt, sai akur hefur aidur borid, sem lini skal i sai, til dæmis: sai akur sem borid hefur jardeple, hamp, bauner og adra aavexte, sem hreinsa jördena, gefur hid besta lin, se hun feit og god af nattúrunne; enn þai jörd, sem borid hefur rug, bygg edur hafra, ræd eg ongvum ad taka til lin-akurs, medan önnur hvor af þeim fyrrsögdu er til, þo kann hun med

erfide

erfide og skynsamlegre ræktun ad gioraft god.

1. Er þad, ad jorden sem ætlud er til horâfla skal vera feit og god, vel diup og sandblandinn: miog leirmikil helld eg eigi, se þeirre urt hentug, enn skule hun brukast, ma hun molast augæta vel, og giorast feit og laus med þar tilheyrilegum aburde. I sidlendre jordu, sem vel er tilreidd, vex horinn ifrid gott i þurkasumrum, þar i mot i oþerrum er haulende hid besta.

2. Hvor sem hefur þvilika jord sunnanundir breckum edur hædum liggiande i hlie fyrir þeim nordlægu vindum, enn solarinnar vel nyti, er hid besta plaats til linakurs. Hvar eigi eru hæder edur hlie, skal þo akurinn leggia mot sudre og sudlægre att, og afskerast med groftum og rennum, sem sagt er um korn-akurinn: betra munde ad

akurinn se mior, þvi hægra er ad vinna þar ad, og einkum ad hreinsa.

3. Eru þad nylendur sem eru teknar til hör-akurs (sem vænta er þar ekki hösum aadur sæda-jord) villde eg rada þeim, sem hafa akurverksærinn ad bruka fyrst ploginn til þeirra fyrstu plæginga, so gengur verkid mikid fliotara. Hvilika nya jord skal plægia fyrst um i Julí mánude, og skal plogtorfann i þeirre fyrstu plægingu ekki vera breidare enn rumt hálftset, og ekki helldur miog þykk, þvi lettare er dratturinn fyrir eykina, Þad heila sumar skal torfan liggia ohrærd at grasinu, so funar bæde þad og ræturnar, og giörer jordena friofsama. Se jorden feit, sem ekki er ad efa um þá islendsku, þarf hun einkis áburdar vid, og so kann hun þá liggia veturinn yfir, og ad vore komande skal hun plægiast so snemma, sem klakinn er burtu og hun er þurr ordin, og liggia so og

riuka

rinka nokkra daga, þar til sæde-tiden nalgast. Nu være gott ad lata akurrisinn ganga yfir akurinn, sem sa skal i, ad burtrisa rætur og taugar, ef i væru jordenne. Þridia sinn skal hun plægiast undir utsædid, og þa villde eg rada, ad heile akurinn være barinn med klaru, aunægianlega smatt, rakad mollденne til sidu, yfdur vel botninn med sterkre hrisu, og sad so i hor-fræinu.

Ef sad verdur i þa jord, sem vaxid hefur korn i, og efe madur um jard-arennar seitleika, skal hun strax plægiast, eftir þad kornid er uppskorid, torfan veltist vel um og ligge so til haustsinns, skal þa aburdinn utfæra, sem linakrinum er haglegastr, moka honum þunt yfir akurinn, og plægia hann sidan nidur. Ad vore komande, skal akurinn plægiast þridia sinn, og verdur hann barinn med klaurunni, ma strax þar eftir sa þar i

aun

an frekare plægingar. Verdur hann ekki klærubárinn, mæ alls ekki sú fiorda plæging undanfellast.

Hafe jardeple, hampur, bauner, edur adrer þvilíker ævexter, sem hreinsa jordena og giora hana opna og meira, vaxid sams sumars i akrinum, og han verdur upptekinn til hors, er ekki þorf ad plægia hann oftar enn einusinne þad haust, og aftur um vorid, og beriest þæ vel undir horsædid.

Hafi akurinn fengid æburd ærinnædur, mæ ofekiu plægia hann og sæ æburdarlæust, enn ef ekki, skal hann hafa sinn fulla æburd, ædur horvinum verdur i hann sæd. Hvor sem ikki hefur plog edur akursære, enn vilde þo leggia sig eftir horæfla, skal hann uppstinga þæ nyu jord i Juni mænade, vellta hnausunum vel um, og læta þæ so liggia ohrærda sumarid og veturinn yfir. Ad vore þæ stungu þidt er

ordid,

ordid, mai hun uppgrafast at ny, til ad riuka um hrid: hid þridia sinn ætte hun ad umgrafast undir udsædid, beriest vel og saist sidan.

4. Er Iordenn mogur edur ut-tærd, skal hun gioraft frio med aburdinum: til sidlends Lin-akurs er brunnid sauda-tad, gamallt afrak og sandblandin myrar-jord hinn beste aburdur: i hai lendann þar i mot, er brunninn mykia hin hagkvæmasta; enn i nylendur þangblendingur edur folld-mykia. Aburdurinn skal utfæraft um haustid fyrir þa adra plægingu, og plægiast saman vid jordena.

5. Hingad til hafa menn truad ad innlendt horfæde þrifist eigi i þess egin jord, og þvi hafa flester keypt þad utlenda; enn nu er reynt ad þad innlenda vex eins vel edur betur, se þad vel fullvaxid og af godre-jordu; þo hallda flester þad skule eigi nytt

vera sem sad er, og eigi yngra enn þriggia edur fimm ára, og mættum ver þá kaupa þad utlenda inn til feingid hefdum vort so gamallt. Haganlegast munde Íslande þad Norska, sem gott være, frá Lif edur Skot-lande edur Russlande, þesse eru flest kolld lond og skylldust voru lofte. Feingist eigi hor-sædi frá þessum londum, þá gott Þydskt edur Engelskt. Nær vort eigid være ordid so gamallt, sem sagt er, kynnum ver þad best bruka. Þad sem aflast hvort ár, medann brukad være þad utlenda, skyllde látast fyrir sig, og merkiast, ad eigi yrde mistekid til, og sá æ þvi ellsta. Þad mun ekki lett ad tilsetia nokkra vissa sædetid, þad ridur mest á vedurættunne, og hvort jorden sem i skal sá er hár-edur lág-lend; þo villde eg ráda ad bida þar med, þar til ute eru frost og kulldar. Er jorden þurr og hálend, sáist hun fyrr enn su deiga og sidlenda: i sama máta, þvi sem bera skal fræ, sáer

madur

madur so snemma sem verdur, enn bide þo þar til loftid er milldt ordid. Ein verdur ein viss avoxtur, og mun þess sædetid um Hvitasunnu edur Trinitatis, og þo faum dogum sidar verde mun æigi skada stort.

6. Lini skal jafnara sa enn flestu sæde odru: vind og regn mæ varast þar þad skal starfa; er jordinn god og vel moluð, þarf eigi meira enn eitt qvartil i tunnulandid, og so eftir tiltolu. I fyrstu skal byria med litt. Um kvelld-tima undir nættfallid er best ad sa horinum, þo so vel se verkbiart, ad kornid falle eigi ojafnt; þad sæd verdur um kvelldid, stande nottena efter oadgiort, og breidist molldenn yfir fyrir solar-uppruna, þæ dogginn hætter ad falla: sama er um þad sem sæd verdur um morguninn, ad þad skal vera komid undir jordena, ædur, edur strax eftir Solinn kemur upp. Þad sæde, sem þykt er sæd, gefur smæann og miukann hor, enn minne

Hitt þar i mot, sem sad er þunt, mikinn enn stærre og stifare. Oss helld eg være mest um ad giora einkum i fyrstunne, ad sia uppa fioldann, enn lata adrar þioder rækta og vinna sitt smaua lin: vitum ver adferdena, er hægt til ad taka nær þarf.

7. Þa horinn er vaxinn vel eitt qvart. hatt, skal arfi og allt illgrese, sem þar vill vaxa i bland, burthreinsast, þad ma gioraſt af adgætnu og handvonu folke miøg vareigdarliga, ad hvorki hans veiku steingur edur rotin hafe skada þar af. Þa regnvænlegt er, edur blaustur ysirstendur sudlægur, er best ad sæta þvi verke. Nu vex horinn, og er ekki hrært vid, inn til hann verdur upprættur. Þad er merke hans þa fullvaxinn er, ad bleikum edur gulleitum lit slær a stongina og knappana, og þa ma hann taka: oft skedur þad ad hann misvex, og skal þa fyrst uppslita þann langa, og leggia hann ser i lage, og

sidan

sidan hann styttre. Nu kann það ske að stöngin verður fyrre fullvaxin enn knappurinn eður sæðið þar i, sem sest þar af að stöngin verður fyrr gul enn knapparner, og er það fræið enn ekki gott, þeir sem vilia hafa smáann hör, rifa hann þá strax upp; hiner sem meira meta fræið, láta hann standa allt þar til það er fullvaxið og knapparner eru guler.

8. Er þar ekki annað, þá hörinn er fullvaxinn, enn hann er rifinn upp ur akrinum, og bundinn i smá bindene, og knapparner strax afslitner með einum járn- eður tré-kambi, sem þar til er giorður, og stendur fastur i stokki eður tré. Knapparner með fræinu (því so geimist það best) hirðist i hreinu iláte, og setiest á þurran stað. Þá sá skal fræinu brytur maður knappana, og hristir það af. Strax þá knapparner eru afslitner, taka menn hörinn og fegia hann eður bleyta: þar til er tvo-

falldur mate, sem er ad leggia hann i vatn, edur breida ut a jordena, hvor-tvegge er athugasamur. Þad svikur margann: þeir láta horinn liggia eins lengi i allslags vatne, og suna so endarner og horinn verdur. Kortur, þvi allslags vatn hefur ekki somu naturu ad feyia: uppsprettu-vatn hefur sterkastann kraft þar til af ollu vatne, þar næst rennande vatn, enn myr-pollar edur stodu-votn hinn minsta. Hafi madur uppsprettu-vatn, sem nog er diupt skal leggia þar a botninn steina edur flatar hellur, ef adur ekki eru, og þar ofan a rasta, so huse vel undir; og þar ofan a leggist gamallt hey edur ruddi, ofana heyid leggist þar horinn, ofana hann skal leggia ad nyiu gamallt hey, so spitur og esst steina, og grita vel nidur undir vatnid, ad solin næe ekki ad skina þar a. Somu adferd skal hafa hvort sem bleytt er i tiornum edur rennande vatne, ad þvi undanteknu þad sem liggur i uppsprettu-vatne, ad gætist a fiorda dege, i straum-

vatne

vatne a 5 = edur 6. enn hitt sem er i stodu-
vatne a siounda, og ekki forsoma tidena. Þa
hismid losnar fra þradunum skal han upptakast
og breidast a jordena ef þurt er, ella heingist i
hiall edur annann stad, hvar vindur nair
ad blasa, þar til þurr er ordinn, geimist
so a þurrum stad inn til breikstur verdur
og brotinn. Sa annar mate er ad feyia
horinn a jordenne: plantsid skal vera slegid,
enn hafe þo vaxid nokkud nytt gras a, ad
hann eigi ligge nidur i rotenne, hann skal
breidast þunt ut. Er jorden hallend og
gauge þurkar, ma hann liggia nær 14 da-
ga a þa einu sidu adur snuid verdur, sie
þa hismid laust fra þradunum, skal hon-
um venda a þa adra sidu, og passa vel
ad hun ligge nidur, og bide so adra 14 da-
ga, se skelin nu fuinn ordinn a þeirre sidun-
ne skal hann samantaka og hirda, þar til
brotinn er; þo ma ekki binda sig so fast vid
dagatalid, ad horinn se eigi adgættur fyrr og
sidar annars mætte skade af koma. Vedur og
jard-lagid giora her mikid i. Til dæmis: J

 sudd-

suddaвedre og a sidlendre jord sunar hann longu fyrr, einkum se þar gras mikid. Í umskistande regnvedre med blaustrum, þar i tnillum: a grasmikelle jordu, fyrr enn a graslite, og so fr. v. Þesse tilferle urkresia og meire athugaseme; Í sterkum þurrvidrum snua sumer honum tvisvar.

9) Þa hørinn þann veg er undirbuinn, er hann breisktur og brotinn hér til er þa þrefalldur mate: 1. Ad breiskia hann vid solarhita. 2. Í bakaraofninum og 3. Yfir elld-grosum. Sa fyrste er hinn beste; þar þvi verdur vidkomid, ad þurka hørinn adur solskinid dofnar, er hann reistur upp sunnan undir husunum heil þunt, ad hitinn kunne ad þreingia i gegnum, honum ma snua sifellt ad hann bakist a allar sidur; verde hann nu so vel bakadur ad briotast kunne, (sem eigi skedur utan hitinn se sterkur) er folk vid hondena ad briota hann medan heitur er i þvi verkfære sem Brage (Hørbriotur) heiter, og þar

er

er tilgiort, gefist hitinn eigi so sterkur þad sumar, er best ad geima hann veturinn yfir, ef madur kann hans ann vera, og fullgiora so verkid sumarid eftir, þa vedur gefst hentugt þar til. 2. Þeir sem ekki vilia bida med horinn, þurka hann i bakara ofninum og er hann þa kindtur þar til, edur menn nota ser af somu hitunne og brukud var til braudbakfturs. Madur horinn er inn latinn, skulu gneistarner vandlega burtsopast med leppsu edur hey-visk, latist so horinn inn, og tilbyrgist ofnununinn, þar til hann er bakadur, takist so ut og briotist. Hinn 3die er ad breiskia horinn yfir elldgrofenne, og er þann veg: madur grefur jard-grof 5 alna langa a þurrum stad utangards, ad breidd er hun 5 qvartil og 5 ad dypt. þar i kinder madur torf-elld, og leggur bord edur mio tre langs yfir, og grefur litt fyrir endunum, her yfir leggiast þa horbindinginn, og er þeim snuid eftir sem heit verda. Þa raftarner hitna ofmikid, er þar madur til reidu med vatn og þvogu, sem

væte þa jafnodum ad nedan. Þa horinn er fullbakadur, er folk vid houdena, sem brytur hann medan heitur er. Þad skal athugast vid horbrotid, ad knappa-endinn verde fyrst brotinn, og þo hægt i fyrstu, þar til hisinid er allt linad; annars kann hann audvellt slitna edur skerast. Hvad verkinu framar vidvikur, samt hvorn veg hann skal dusta edur hreinsa, þa brotinn er, þad hefur Msr. Olafur Olafsson so vel og greinilega skrifad i sinum agæta Bæklinge, er hann kallar Islendska Urtagards-bok, ad ekki er abotavant. *)

10) So mætte synast sem þeir onyttu fyrer ser fræid, sem taka horinn upp fyrr enn þad er fullvaxid; enn þess þarf eigi. Er horinn tekinn þa stongin er gulleit ordin, þo knapparner seu ekki, þarf eigi an-

nad

*) Bokin er þrykt i Kaupenhafn 1770. les þann 4da Cap. um Hor og Hamp.

nad enn breida hana med kneppunum þunt
ut a jordena, þar til fræid verdur brun-
leitt og glinsande, og þa ma hann uppta-
ka, slita knappana af, og breida so ad nyiu
þar til suinn er. Sumer binda hann i
bindene og reisa upp a akrinum i 9 daga,
edur þar til fræid er gott, svartleitt og styr-
nir a, og skal miog adgæta þad ligge eigi
oflengi.

Vid Hampinn er ad merkia nær
allann þann sama ræktunur mata, og sag-
dur er um hörinu. Hann skal hafa goda
og diupa jörd sem ligge i hlie hampur er
einn sierkur avoxtur, og munde giarna vaxa
po jorden hvorke være so vel temprud, edur
so smatt malin sem til horsins. Þad er al-
mennur vane ad upprisa þær storu steingur
af hampinum, sem fyrst verda fullvaxnar og
ekki bera fræ; enn þar vid troda menn
bæde þann annann hampinn, og onyta hans fræ.
Hampinn skal upptaka þa knapparner op-
na sig, hoggva þa af, og geima med fræ-
inu

inu i, þar til það skal brukast, enn stongium leggist i vatn, þar til skelin losnar, 10 edur 12 daga, og kanske skemur, sem vel mat adgætast, takist so upp, þurkist, og briotist sem sagt er um
horinn.




Plogurinn.


Akur-rijfurinn.


Veltann.


Sigdinn.

